# TÍMARIT

**Þjóðræknisfélags Íslendinga í Vesturheimi**

XXXIV. ÁRGANGUR

Tilgangur félagsins er:

1. Að stuðla að því af fremsta megni að Íslendingar megi verða sem bestir borgarar í hérlendu þjóðlífi.

2. Að styðja og styrkja íslenska tungu og bókvísi í Vesturheimi.

3. Að efla samúð og samvinnu meðal Íslendinga austan hafs og vestan.

Þetta er sá félagsskapur meðal Íslendinga í Vesturheimi, er aðallega byggir á þjóðernislegum grundvelli og hvetja vill þá til framsóknar og virðingar til jafns við þá þjóðflokka aðra, er þetta land byggja.

**Þjóðræknisfélag Íslendinga í Vesturheimi**

Winnipeg, Canada

# IN MEMORIAM

HEIÐURSFÉLAGAR OG FORSETAR

His Excellency Lord Tweedsmuir, Hon. Patron
Kjartan Helgason, fyrrum prófastur
Stephan G. Stephansson, skáld
Frú Stephanía Guðmundsdóttir, leikkona
Prófessor Sv. Sveinbjörnsson, tónskáld
Þorbjörn Bjarnason, skáld (Þorskabítur)
Einar H. Kvaran, rithöfundur
Ragnar E. Kvaran, fyrrum prestur og forseti
Kristján Níels Júlíus (K. N.), skáld
Séra Jónas A. Sigurðsson, skáld og forseti
Dr. Rögnvaldur Pétursson, forseti og ritstjóri
Prófessor F. S. Cawley, Ph.D.
Friðrik Swanson, málari
Kapt. Sigtryggur Jónasson
Dr. B. J. Brandson, læknir
J. Magnús Bjarnason, rithöfundur
Dr. Hjörtur Thordarson, raffræðingur
Mrs. Guðrún H. Finnsdóttir, skáldkona
Friðrik Hallgrímsson, dómprófastur
A. S. Bardal, útfararstjóri
Ólafur Pétursson, fasteignasali
Sveinn Björnsson, forseti Íslands
Árni Pálsson, prófessor

# Félagatal Þjóðræknisfélagsins 1952

## A. Heiðursverndarar

His Excellency the Right Honourable Vincent Massey, landstjóri Canada
His Excellency the Right Honourable The Earl of Athlone, K.G.
Herra Ásgeir Ásgeirsson, forseti Íslands

## B. Heiðursfélagar

Dr. Vilhjálmur Stefánsson, landkönnuður, New York
Prófessor Halldór Hermannsson, Cornell University, N. Y.
Prófessor Sigurður Nordal, sendiherra Íslands, Kaupmannahöfn
Dr. Watson Kirkconnell, President Acadia University, Wolfville, N. S.
Dr. Henry Goddard Leach, New York, N. Y.
Rt. Rev. C. V. Pilcher, D.D., Sydney, Australia
Jóhannes Jósefsson, íþróttamaður, Reykjavík, Ísland
Þorst. Þ. Þorsteinsson, rithöfundur, Gimli, Man.
Guttormur J. Guttormsson, skáld, Riverton, Man.
Dr. Sig. Júl. Jóhannesson, skáld, Winnipeg, Man.
Mrs. Jakobína Johnson, skáldkona, Seattle, Wash.
Mrs. Laura Goodman Salverson, skáldkona, Toronto, Ont.
Fröken Halldóra Bjarnadóttir, ritstj. Hlín, Akureyri, Ísland
Jónas Jónsson, fyrv. alþingismaður, Reykjavík, Ísland
Thor Thors, sendiherra Íslands, Washington, D.C.
Séra Rúnólfur Marteinsson, Winnipeg, Manitoba
J. T. Thorson, yfirdómari, Ottawa, Ontario
J. J. Bíldfell, Montreal, Que.
Árni G. Eylands, Reykjavík, Ísland
Sigurgeir Sigurðsson biskup Íslands
Gunnar B. Björnsson, Minneapolis, Minnesota
Ásmundur P. Jóhannsson, Winnipeg, Manitoba
Einar Jónsson, myndhöggvari, Reykjavík, Ísland
Vilhjálmur Þór, Reykjavík, Ísland
Gísli Jónsson, ritstjóri Tímaritsins, Winnipeg, Manitoba
Dr. John C. West, forseti Ríkisháskólans í North Dakota, Grand Forks, N. D.
Próf. Ásmundur Guðmundsson, formaður í guðfræðideild Háskólans í Reykjavík
Séra Albert E. Kristjánsson, prestur, Blaine, Washington
Prófessor Richard Beck, Grand Forks, North Dakota
Dr. Helgi Briem, aðalræðismaður, Stokkhólmi í Svíþjóð
Sigurður Þórðarson, söngstjóri, Reykjavík, Ísland
Dr. Thorbergur Thorvaldson, prófessor emeritus, Saskatoon, Sask.
Dr. Árni Helgason, raffræðingur, Chicago, Ill.
P. H. T. Thorlakson, M.D., Winnipeg, Manitoba
Guðmundur Grímsson, dómari, Rugby, North Dakota
G. J. Oleson, Glenboro, Manitoba
Einar P. Jónsson, ritstjóri Lögbergs, Winnipeg, Manitoba
Stefán Einarsson, ritstjóri Heimskringlu, Winnipeg, Manitoba
Dr. A. H. S. Gillson, Pres. University of Manitoba

C. Ævifélagar

Árni Sigurðsson,
Seven Sisters, Man.
Dr. Helgi P. Briem,
Consul Gen. of Iceland,
Stockholm, Svíþjóð
Grettir Leo Jóhannson,
Icelandic, Danish Consul
Winnipeg, Man.
Dr. P. H. T. Thorlakson,
Winnipeg, Man.
Gunnar R. Pálsson,
New York, U. S. A.
Grettir Eggertson,
Winnipeg, Man.
Hon. K. Valdimar
Björnsson
Minneapolis, Minn.
J. W. Jóhannson,
leikhússtjóri,
Pine Falls, Man.
Sr. P. M. Pétursson,
Winnipeg, Man.

D. Ársfélagar

1. ÍSLAND

Dr. Eggert Steinþórsson,
Reykjavík
Frú Gerður Steinþórsson,
Reykjavík
Fröken Jóhanna Friðriks-
dóttir, Reykjavík
Frú Guðrún J. Erlings,
Reykjavík
Eggert Levy, hreppstjóri,
Ósum, Húnavatnssýslu
Jón Eiríksson
Djúpadal, Skagafjarðar-
sýslu
Gunnar Norland,
Reykjavík
Árni Friðjónsson,
Siglufirði

2. ENGLAND

Miss Ingibjörg Ólafsson,
Stella Maris,
Rottingdean, Sussex

3. CANADA

Árborg, Man.

Solveig S. Johnson

Árnes, Man.

Mrs. Guðrún Johnson
O. G. Ólafsson
Þorsteinn Sveinsson
S. J. Thorkelsson

Ashern, Man.

Hermann Helgason
Guðm. Sigurðsson

Benalto, Alta.

Jóhann M. Hillman

Brandon, Man.

Dr. E. J. Skafel
Dr. Friðrik Fjelsted

Calgary, Alta.

Sigurður Sigurðsson

Camp Morton, Man.

Þorsteinn Sveinsson

Cypress River, Man.

Stefán Eiríksson

Elfros, Sask.

Jón Jóhannesson
Sigurður Arngrímsson

Eriksdale, Man.

Mr. og Mrs.
Chris Halldórsson

Frobisher, Sask.

Hjörtur Bergsteinsson

**Gimli, Man.**

Jón Sigurðsson
Miss Sæunn Bjarnason

**Hayland, Man.**

Mrs. Stefanía Guðmundss.
Sigurður B. Helgason
Ólafur Magnússon
Geirfinnur Pétursson
Mr. og Mrs. Freeman Halldórsson

**Hnausa, Man.**

Daniel Halldórsson

Hildibrandur J. Hildibrandsson
Sigvaldi Vídal
Miss Sigurrós Vídal
Rögnvaldur S. Vídal

**Keewatin, Ont.**

Bjarni Sveinsson

**Markerville, Alta.**

Mrs. Rósa S. Benediktson

**Marquette, Man.**

Mrs. Sigríður Sveinsson
S. G. Sveinsson
Árni G. Johnson

**Matheson Island, Man.**

Árni G. Johnson

**Montreal, Que.**

Mrs. H. L. Robson

*Greetings . . .*

To Our Icelandic Friends

**GRANT'S BREWERY LTD.**

WINNIPEG MANITOBA

**Phone 5-0118**




Two favorites




at any party

**DREWRYS**

**CANADIAN FISH PRODUCERS LTD.**

J. H. PAGE, *ráðsmaður*

Kaupa og flytja út nýan og frosinn fisk. Viðskifta er óskað alstaðar frá í Manitoba og Saskatchewan.



**Office Phone 74-7451**
**Res. Phone 72-3917**

**311 Chambers St.**

**WINNIPEG MANITOBA**

**Every Year . . .**

The United Grain Growers extends to its associates and friends the best wishes for the coming year.

For more than 47 years this pioneer farmer-owned grain co-operative has served Western farmers—and with each year the pledge is renewed to give farmers a better standard—a better way of life.

**United Grain Growers Limited**

**WINNIPEG - EDMONTON - GALGARY - SASKATOON**

**Narrows, Man.**

Miss M. Gunnlaugsson
Kristján Guðmundsson
Joe Kernested
Mrs. Arnþóra Kernested
Miss Katrín Kernested
Guðmundur Thorkelsson

**Osland, B.C.**

Kristján Einarsson
Friðrik Kristmansson

**Oak View, Man.**

Mrs. Jóhannes Johnson
Thorsteinn Johnson

**Ottawa, Ont.**

Dr. John B. Watkins

**Otto, Man.**

Mrs. Guðr. G. Eyjólfsson

**Piney, Man.**

Mrs. B. E. Björnsson
Kristinn Norman
Lárus S. Freeman

**Red Deer, Alta.**

Ófeigur Sigurðsson

**Riverton, Man.**

Friðrik P. Sigurðsson
Mrs. S. O. Thompson
Skúli Skúlason
Mrs. K. S. Benedictson
Pétur Jónsson

**Selkirk, Man.**

Ásgeir Bjarnason

**Sexsmith, Alta.**

Jón Einarsson

**Siglunes, Man.**

Davíð Eggertsson
Miss Guðbj. Eggertsson
Ásmundur Freeman
Grettir Fossman

**Swan River, Man.**

Mrs. Thórdís Samson
C. Guðmundsson

**Tantallon, Sask.**

Helgi Vigfússon

**Toronto, Ont.**

Einar I. Svanbergsson
J. Ragnar Johnson

**Vancouver, B.C.**

Mrs. Kristjana Anderson
Magnús Elíasson
Mrs. Matth. Friðriksson
Mrs. H. S. LeMessurier
Mrs. Anna Matthíasson
Thor Guðmundsson
Miss Dóra Davidson
Christian Sivertz

**Victoria, B.C.**

Dr. J. P. Pálsson

**Vogar, Man.**

Björn Eggertsson
Framar Eyford
Tómas Guðmundsson
Mrs. Unnur Hallson
Mrs. Ingibj. Eggertsson
Mrs. Óli Johnson
Miss Margrét Lambertson
Óli Johnson
J. Eyford
Jónas Johnson
Lestrarfél. „Herðubreið"
Magnús Jóhannesson
Björn Johnson
John S. Johnson
Óli Johnson
Óskar Johnson
Páll Jónsson

**Wapah, Man.**
Mrs. Fritz Erlendson

**Westbourne, Man.**
Mrs. Lára Sveinsson

**White Rock, B.C.**
S. D. B. Stephanson

**Winnipeg, Man.**
Mrs. Sigríður Árnason
Mrs. Jónína Christie
Mrs. Gyða Hurst
Próf. Skúli Johnson
Guðm. F. Jónasson
Capt. Vilhelm Kristjánsson
G. S. Thorvaldson, K.C.
Jónas Thorvarðarson
Mrs. S. Kjartansson
Mrs. Arnheiður Eyjólfsson

**Wynyard, Sask.**
Jakob J. Norman

4. BANDARÍKIN

**Alexandria, Va.**
Leifur Magnússon

**Arlington, Va.**
Mrs. J. Sigmundsson

**Baltimore, Md.**
Dr. Stefán Einarsson

**Berkeley, Calif.**
Próf. Sturla Einarsson
Rev. S. O. Thorlakson

**Blaine, Wash.**
Mrs. Kristín F. Líndal

**Boston, Mass.**
Kapt. Jóhannes G. Ásgeirsson
Kórmakur Ásgeirsson
Einar Barnes
Ari Bjarnason
Kapt. Jóhannes Björnsson
Valgeir Einarsson
Andrés Guðmundsson
Kapt. Thor Guðmundsson
Jónas Hallgrímsson
Björn D. K. Haralz
Kapt. Gunnl. Illugason
Kapt. Guðm. Jóhannsson
Gunnlaugur Jónsson
Kapt. Theódór Jónsson
Guðmundur Pálsson
Pálmi M. Sigurðsson
Snorri Einarsson
Jakob J. Thorvaldson
Kapt. Óskar Gíslason

**Bottineau, N. Dak.**
Ásmundur Benson
Óskar B. Benson
Albert Árnason

**Buena Park, Calif.**
Mrs. J. Gillis

**Cambridge, Mass.**
Próf. Francis P. Magoun, Harvard College Library
Próf. Taylor Starck

**Chicago, Ill.**
Emil Beck
Sigurthor M. Hinrickson

**Clarkfield, Minn.**
Mrs. Jóhann Gunnlaugson

**Cismont, Va.**
Próf. Frederic T. Wood

**Cottonwood, Minn.**
H. B. Hofteig

**Davis, Calif.**
Dr. V. S. Ásmundsson

**Detroit, Mich.**
Hon. Frederick H. Fljózdal
Jónas W. Johnson

**Fargo, N. Dak.**
W. A. Myrdal
Próf. Th. W. Thordarson

**Gloucester, Mass.**
Einar Anderson
Jónas B. Johnson

**Grand Forks, N. Dak.**
University Library

**Hallson, N. Dak.**
Árni J. Jóhannsson

**Huntington Park, Calif.**
Dr. Paul V. Jameson
Miss Ellen Jameson

**Ithaca, N. Y.**
Cornell University Library
Kristján Carlson

**Ivanhoe, Minn.**
Peter H. Foss
Árni Thorkelson

**Jackson, Mich.**
Andrew H. Palmi

**La Kota, N. Dak.**
Einar Johnson

**Lincoln, Nebr.**
Próf. Joseph Alexis

**Los Angeles, Calif.**
Gunnar Bergman

**Minneapolis, Minn.**
Ásmundur Bjarnason
Björn G. Björnsson
Hjálmar Björnsson
Guðmund Peterson
Gunnar S. Bardal
Rev. Sveinbjörn Ólafsson

**Minneota, Minn.**
Gunnar S. Bardal
Sr. Guttormur Guttormsson
Einar Hallgrímsson
S. Frank Josephson

J. P. Ísfeld
Jóseph Jósephson
John A. Johnson
John L. Johnson
Jón Metúsalemson

**National City, Calif.**
John S. Laxdal

**New Brunswick, N. J.**
Rutger's University Library
Prófessor Helgi Johnson

**New Haven, Conn.**
Próf. Adolph B. Benson
Yale University Library

**New Ulm., Minn.**
Hon. A. B. Gíslason

**New York, N. Y.**
Edvard Frímannsson
Garðar Gíslason
Jón Guðbrandsson
Hannes Kjartansson
Gunnar Magnússon
Georg Östlund
Dr. E. Thorláksson
Ólafur Johnson



*His Excellency The Right Honourable*
VINCENT MASSEY, C.H.
*Governor-General of Canada*

# TÍMARIT

## ÞJÓÐRÆKNISFÉLAGS ÍSLENDINGA

ÞRÍTUGASTI OG FJÓRÐI ÁRGANGUR, 1952

Ritstjóri: Gísli Jónsson




WINNIPEG, MANITOBA

Gefið út af Þjóðræknisfélagi Íslendinga í Vesturheimi

1953

# Myndirnar



PRENTAÐ HJÁ THE COLUMBIA PRESS LTD., 695 SARGENT AVENUE, WINNIPEG

# Efnisyfirlit

# Forseti Íslands



**Herra Ásgeir Ásgeirsson**

EINAR P. JÓNSSON:

# Hugsað til Ásgeirs forseta

Þú fæddist, er umbótaaldar sól
var óðum að nálgast hafið;
hún mildaði göngu mannkynsins
þó margt sé nú týnt og grafið.
En framundan eygði óskaland
í upprisubjarma vafið.

Í draumsýn um alheimsfrelsi og frið
var fóstruð þín æskuhyggja:
Að hefja vorn lýð til hærra vegs —
á hugsjónum framtíð byggja
og láta ekki tvísýn, áfjáð öfl
á ættlandsins heiður skyggja.

Þó blóðfjöðruð sé nú okkar öld
hún Ísland úr viðjum leysti,
og enn sem fyr ber sitt aðalsmark
hin arfgenga, forna hreysti.
Sú fylking var djörf og frækileg,
er fánann að siglu reisti.

Vor þjóð þarf að brynja sjálfa sig
og sækja til dýpstu miða.
Það afl, sem með henni innra býr
hún ein á að göfga og friða,
og reisa sér alfrjáls eigin höll
án erlendra máttarviða.

Í barmi hvers dags býr landnámsljóð,
er lýsir um vegu þína.
Og blysið, sem þú hefir borið hæst
mun bjart yfir öldum skína.
Og vaxandi eining um borg sem bygð
þinn bústað skal láni krýna.

ÞORSTEINN M. JÓNSSON, skólastjóri:

# Trúar- og lífsskoðanir Helga hins magra

*(Erindi flutt á Rotary-fundi á Akureyri 9. maí 1947)*

Eins og kunnugt er, þá var Helgi hinn magri Eyvindarson nafnkunnasti og ríkasti landnámsmaður í Eyjafirði. Um för hans til Íslands segir svo í Landnámabók:

„Helgi hinn magri fór til Íslands með konu sína og börn; þar var og með honum Hámundur heljarskinn, mágur hans, er átti Ingunni, dóttur Helga. Helgi var blandinn mjög í trú; hann trúði á Krist, en hét á Þór til sjófara og harðræða. Þá er Helgi sá Ísland gekk hann til frétta við Þór, hvar land skyldi taka, en fréttin vísaði honum norður um landið. Þá spurði Hrólfur son hans, hvort Helgi mundi halda í Dumbshaf, ef Þór vísaði honum þangað, því að skipverjum þótti mál úr hafi, en áliðið var mjög sumarið.“

Landnáma segir síðan frá landnámi Helga í Eyjafirði, og ástæðuna fyrir því, að hann kallar bæ sinn Kristnes. „Helgi trúði á Krist og kenndi því við hann bústað sinn.“

Þessar heimildir Landnámu um Helga hinn magra eru einu heimildir, sem til eru um lífs- og trúarskoðanir hans. En þótt þessar heimildir séu ekki margorðar, þá segja þær samt allmikið: „Helgi trúði á Krist“ og „Helgi var blandinn mjög í trú.“ Þessi síðari setning gefur innsýn á skoðanir Helga. Af henni má draga sennilegar ályktanir um lífsskoðanir hans, trúkerfi hans og trúarskoðanir. En líka verður að athuga um leið ætt hans og uppruna og uppeldi. Ennfremur verður að kynna sér hið andlega andrúmsloft, sem hann hefir drukkið í sig í uppvexti.

Faðir Helga hins magra var Eyvindur austmaður, gauzkur að ætt og uppruna, kominn af konungaættum. Hann fór frá Gautlandi til Noregs og tók þar við herskipum föður síns, en faðir hans hafði flúið áður til Noregs frá Gautlandi eftir að hafa brennt inni Sigfast mág Sölvars Gautakonungs og þrjá tigu manna. Eyvindur fór í vesturvíking og settist að á Írlandi og gerðist þar landvarnarmaður. Fékk hann fyrir konu Rafórtu dóttur Kjarvals konungs í Ossary á Írlandi, og varð hún móðir Helga hins magra. Ekki er vitað með vissu, hvort Helgi hefur fæðzt í Suðureyjum eða á Írlandi, en foreldrar hans settu hann í fóstur á Suðureyjum, en er þau komu þar út tveimur árum síðar „var hann sveltur“, svo að þau þekktu hann ekki. Tóku þau hann úr fóstrinu og

kölluðu Helga hinn magra, sem hann jafnan síðan hefur verið kallaður. Eftir það ólst hann upp á Írlandi. En er hann var roskinn, gerðist hann virðingarmaður mikill og fékk fyrir konu Þórunni hyrnu, dóttur Ketils flatnefs. Ketill flatnefur var norskur hersir, sonur Bjarnar bunu, en afkomendur Bjarnar fluttust flestir til Íslands, og segir Landnáma, að frá Birni sé nær allt stórmenni á Íslandi komið. Haraldur hárfagri hafði lagt undir sig Suðureyjar, en víkingar, Skotar og Írar, settust að í eyjunum og herjuðu víða og þar á meðal á Noreg. Setti þá Haraldur konungur Ketil flatnef yfir her, sem hann sendi vestur um haf til þess að vinna eyjarnar aftur. Lagði Ketill eyjarnar undir sig, en neitaði að borga konungi skatt, en konungur tók þá undir sig eignir Ketils þær, sem hann átti í Noregi, en rak burt Björn son hans, er kallaður hefur verið hinn austræni. Fór Björn til Íslands og nam land við Breiðafjörð sunnanverðan. Ennfremur fór frá Suðureyjum Helgi bjóla, sonur Ketils, og nam land í landnámi Ingólfs. Og ennfremur settust að í landnámi Ingólfs þeir Örlygur og Þórður synir Hrapps Ketilssonar flatnefs. Auður hin djúpúðga Ketilsdóttir flatnefs giftist Ólafi hvíta, konungi í Dyflinni á Írlandi, en eftir dauða manns síns og sonar síns, Þorsteins rauðs, er um tíma var konungur í Skotlandi og átt hafði fyrir konu Þuríði systur Helga hins magra, en var felldur af þegnum sínum, þá flutti hún til Íslands með skyldulið sitt og nam Breiðafjarðardali. Þriðja dóttir Ketils flatnefs var Jórunn mannvitsbrekka, móðir Ketils fíflska, landnámsmanns á Síðu. Öll börn Ketils flatnefs, þau er til Íslands fóru, voru kristin, nema Björn austræni. Um hann er það sagt, að honum hafi þótt lítilmannlegt að hafna trú feðra sinna. Talið er, að hvergi í landinu hafi kristni haldizt frá því að land var numið og þar til kristni var lögtekin, nema hjá afkomendum Ketils fíflska á Kirkjubæ að Síðu. Um Auði er það sagt, að hún hafi lagt svo fyrir, að hún skyldi grafin í flæðarmáli, því að hún vildi ekki hvíla í óvígðri mold, þar sem hún var kona kristin.

Það er sjáanlegt af fornsögunum, að margir þeirra landnámsmanna, er komu frá Bretlandseyjum, hafa talið sig kristna, þótt þeir að ætt og uppruna væru norrænir, en um engan þeirra er sagt, nema Helga magra einan, að þeir hafi verið blandnir í trúnni. Hins vegar má fullyrða, að þeir muni hafa verið það. Kristni landnámsmannanna, er töldu sig kristna, hefur verið heiðin kristni. Þótt þeir teldu sig kristna, hafa þeir haft lífsskoðanir og siðaskoðanir Ásatrúarmanna.

Það má telja víst, að Helgi magri hefur í uppvexti sínum kynnzt jöfnum höndum trúar- og lífsskoðunum þeim, er faðir hans og föðurfrændur höfðu alizt upp við austur í Gautlandi og Noregi, og trú og lífsskoðunum móður sinnar, sem var kristin, sem og hennar ættmenn. Föðurfrændur hans allir höfðu verið ásatrúar, þar til þeir kynntust kristinni trú í Bretlandseyjum, og víkingar höfðu þeir verið og voru enn, þótt þeir þættust hafa gengið Kristi á hönd. Kona Helga

magra, Þórunn hyrna, hafði og tekið kristna trú, sem flest önnur systkina hennar, en í trú og lífsskoðunum ásatrúarmanna hafði hún verið alin upp austur í Noregi. Norðmenn höfðu herjað á Bretlandseyjar og verið þar heimagangar frá því um 800. Margir þeirra höfðu setzt þar að, sérstaklega á Hjaltlandi, Orkneyjum, Suðureyjum og Írlandi og vesturströnd Norður-Englands og á ströndum Skotlands. Réðu þeir þar oft fyrir stórum landshlutum, og stundum gerðust þeir landvarnarmenn fyrir innlenda höfðingja, eins og Eyvindur austmaður. Heiðnar og kristnar trúarhugmyndir runnu saman í eitt hjá þessum norrænu víkingum, en lífsskoðanir flestra þeirra munu hafa verið heiðnar ásatrúarlífsskoðanir. Þegar þeir skiptu um trú, skiptu fæstir þeirra um siðaskoðanir eða lífsvenjur. Þeir höfðu ekki drukkið inn í sig anda kristinnar trúar, en guðir þeirra fengu við trúskiptin ný nöfn. Eins og kunnugt er, var ásatrúin fjölgyðistrú, en hin norræna fyrsta kristni var það líka. Og jafnvel þótt ásatrú og kristin trú séu mjög ólíkar, þá fundu ásatrúarmenn margar hugmyndir í kristinni trú, sem brutu ekki að öllu leyti í bág við hugmyndir þeirra. Heiðinn víkingur, sem þreyttur var orðinn á orustum og sjóvolki, gat vel sætt sig við og jafnvel þráð friðsamara líf en hann hafði lifað. Þegar hann kynnist kenningunni um hina friðsælu og unaðslegu Paradís kristninnar, þá þráir hann, þreyttur og mettur af orstum og veraldarvolki, hana fremur en Valhöll ásatrúarmanna. En hefndin er í hans augum sjálfsögð og réttmæt. Og þrátt fyrir kærleiksboðun kristninnar, þá skilst honum samt, að guð kristninnar sé hefnigjarn. Svo hefnigjarn, að hann jafnvel sendir alla þá, sem ekki vilja trúa á hann, til Helvítis. Og sjálfum finnst honum réttmætt, að níðingar og ódrengir fari þangað. Helheimur ásatrúarmanna svarar að nokkru leyti til Helvítis kristinna manna. En í hinum þokukennda Helheimi kvöldust menn þó ekki í eilífum eldi sem í Helvíti. En grimmur víkingur, sem allt frá bernsku hafði lifað við þær lífsskoðanir, að menn ættu að hata óvini sína og taldi hefndina ekki aðeins sjálfsagða heldur helga skyldu, fann þarna styrk sínum heiðnu lífsskoðunum. Kærleiksboðun kristninnar hefur þeim skilizt, að ætti aðeins að ná til vina sinna og vina vina sinna.

„Vin sínum
skal maðr vinr vesa,
þeim og þess vin,
en óvinar síns
skyli engi maðr
vinar vinr vesa.“

Sú lífsskoðun ásatrúarmanna, sem kemur fram í þessu erindi Hávamála, var kynslóð þeirri, er Helgi magri tilheyrði, mjög í blóð borin. Helga magra og öðrum kristnum mönnum, sem land námu á Íslandi, munu ekki hafa fundizt neinir árekstrar vera í þessu efni á lífsskoðun feðra sinna og lífsskoðun kristninnar. Því að í þeirra augum var guð kristinna manna hefnigjarn. Hann var hefnigjarn konungur, sem refsaði þeim, er vildu ekki fylgja honum eða beygja sig fyrir

valdi hans. Hann beitir meira að segja ekkert mildari aðferð við andstæðinga sína en æsir beittu við Loka, er þeir bundu hann og létu eiturnöðruna hanga yfir andliti hans allt til heimsloka. Eldar Helvítis voru ekki kvalaminni.

Hjá hinum kristnu víkingum varð vizkuguðinn, Óðinn alfaðir, að rýma fyrir guði almáttugum. Það var enginn vandi og ruglaði ekki trúarkerfi hinna nýkristnu víkinga, að skipta á Guði kristinna manna og Óðni. Þeir fundu skyldleika með þeim og gátu því gengið hinum nýja Guði á hönd. Báðir höfðu þeir átt í vök að verjast, Óðinn og Guð kristinna manna. Loki hafði orðið valdur að dauða Baldurs hins góða og villt vizkuguðinum, Óðni, sýn um stundarsakir. En guðunum tókst að ná Loka og binda hann, eins og að framan er greint. En Sigyn, hin fórnandi kona, hélt skál yfir vitum hans, svo að eitrið, er naðran spýtir, drjúpi ekki í andlit hans. Um óratíma, allt til heimsenda, fórnar hún sér til þess að lina þjáningar manns síns, sem þó allir guðir höfðu lagt bölvun á. Í hinni kristnu trúfræði kom Djöfullinn í stað Loka. Hann var fallinn engill, sem hafði svikið Guð Gyðinga og kristinna manna. Valdi Drottins yfir mönnunum stóð hætta af honum. Því var hann settur til Helvítis. Þar kyndir hann sjálfur logana til þess að kvelja þá menn, er Drottinn vill hegna. Það er hans eina nautn að hefna og kvelja, þótt logarnir leiki um hann um alla eilífð sem um aðra andstæðinga Drottins. En hann er að því leyti verr settur en Loki, að honum ann engin fórnfús kona, engin, er vill lina þjáningar hans.

Í stað Baldurs hins góða, sem allar verur og allir hlutir unnu hugástum á himni og jörðu, kom Hvíti-Kristur. Á þeim var auðvelt að skipta fyrir heiðinn víking. Baldur hafði farið til Heljar eftir að Höður blindi með tilstilli Loka veitti honum bana með því að skjóta að honum mistilteininum. Þar varð hann að bíða til Ragnarökkurs. En Hvíti-Kristur hafði sjálfviljugur stigið niður til Helvítis til þess að tala um fyrir öndum þar, en kom þaðan aftur eftir stuttan tíma án allrar hjálpar. Í víkingsins augum var hann því Baldri meiri.

Í stað Friggjar, konu Óðins, og ástargyðjunnar Freyju, kom með kristninni María mey, brúður Drottins, móðir Hvíta-Krists, hin hreina mey og milda himnadrottning, glæsilegri þeim báðum Frigg og Freyju.

Nýr guð kom með kristninni, sem hét Heilagur andi. Í ásatrúnni var enginn tilsvarandi guð. Í frumkristni norrænni mun hann lítt hafa verið dýrkaður, því að forfeðrum okkar á þeim tímum mun hafa gengið illa að skilja hlutverk hans, ekki síður en mörgum leikmönnum nú á dögum. En í fjölgyðistrúarbrögðum var ekki mikið í húfi, þótt einhver guðinn væri torskilinn, menn sneru sér til þeirra guða, sem samþýddust bezt þeirra skilningi. Það var auk Drottins alföður, Kristur og himnadrottningin María mey, sem menn í bænum sínum munu aðallega hafa snúið sér til. Nóg var líka af nokkurs konar hálfguðum, dýrlingum, sem hægt var að leita

til, enda hafði ásatrúin einnig haft mörgum guðum á að skipa.

En einn var sá guð ásatrúarmanna, sem var í einna mestu eftirlæti hjá flestum þeirra, er Ísland námu, og það var guð kraftarins, hinn sterki Ása-Þór, er átt hafði í sífelldri baráttu við allt versta illþýði tilverunnar, og var styrkur og stoð allra hraustra manna í orustum og öllum harðræðum. Hinir norrænu víkingar, sem tóku kristna trú, munu margir hafa saknað hans, en flestir þeirra hafa treyst því, að Kristur gæti komið í hans stað, en það hefur Helgi hinn magri ekki gert.

Hugmyndin um baráttuna á milli hins góða og hins illa í heiminum voru ekki eins gerólíkar í ásatrú og kristni og mörgum mun finnast þær hafa verið að lítt athuguðu máli. Samkvæmt ásatrúnni börðust guðir og jötnar um heimsyfirráðin, og endar sú styrjöld með Ragnarökkri. Og jörðin og sólin og allt ferst þá. En upp rís nýr himinn og ný jörð, sælubústaðurinn Gimli. Samkvæmt kristnu trúnni var líka togstreita milli Guðs og Djöfuls, og báðum fylgdu stórir flokkar. Guði fylgdu góðir englar og góðir menn, en Djöfli árar og vondir menn, trúlausir menn og trúvillingar. Þessi barátta endar á Dómsdegi. Og er þá skilið að fullu og öllu á milli hinna útvöldu, er lifa sælulífi um eilífð alla, og hinna, sem Drottinn útskúfar.

Fórnfæringar voru einn aðalliður í trúarathöfnum ásatrúarmanna. Fórnarhugmyndirnar voru líka í kristninni, en í talsvert öðru formi. Í stað þess að ásatrúarmenn fórnuðu dýrum og stundum líka mönnum, þegar mikið lá við, þá hafði Guð kristinna manna fært í eitt skipti fórn til réttlætingar og frelsunar kristnum mönnum á öllum tímum. Sú fórn var hans eiginn sonur; dýrari fórn en nokkur önnur fórn, er ásatrúarmenn höfðu kynnzt áður. Aldrei hafði Óðinn fórnað neinu slíku fyrir sína átrúendur. Hann hafði að vísu fórnað öðru auga sínu fyrir vizkuna, og nokkru af henni hafði hann miðlað mönnunum, en fyrir bragðið var hann líka einsýnn um aldur og ævi. Eftir trúarskiptin stráði goðinn ekki lengur fórnarblóði með hlautteininum, svo sem hann hafði gert í blótveizlum ásatrúarmanna, heldur létu nú prestarnir menn neyta brauðs og víns, sem átti á yfirnáttúrlegan hátt að breytast í hold og blóð Jesú Krists.

Við vopnagný og styrjaldir og við kenningar ásatrúarmanna frá Norðurlöndum og við kenningar írskra kristinna presta elst Helgi hinn magri upp. Hann mun hafa verið gjörhugull og gáfaður, og hann hefur fundið margt í hvorum tveggja trúarbrögðunum, sem honum líkaði vel, en annað miður, og sumu hefur hann hafnað með öllu. Hann hefur ekki gengið heill neinni trúarstefnu á hönd, og því er hann sagður blandinn í trúnni, þegar prestur (líklega Ari hinn fróði) skrifar sagnir um landnám hans í Frum-Landnámu á 12. öld. En þrátt fyrir það, að Helgi hefur fundið vöntun og veilur í trúarkerfi ásatrúarmanna og sömuleiðis í hinu kristna trúarkerfi, þá hefur hann samt verið mikill trúmaður. Hann trúir á guðdóms krafta. Hann ann Kristi. Hon-

um helgar hann bæ sinn og heimili, því kallar hann bæ sinn Kristnes. En á sjó úti í hafroki, þar sem hann siglir meðfram hrikalegri strönd lands, sem hann þekkir ekkert nema lítilsháttar af afspurn, í áttina til Dumbshafs, þá finnur hann tengslin við hinn sterka guð forfeðra sinna, Ása-Þór, sem gaf þeim og honum karlmennskulundina og barðist ó-trauðri baráttu gegn óvættum til-verunnar samkvæmt ótal sögnum um hann, sem hann hafði heyrt föðurfrændur sína segja frá. Hinn kærleiksríki Kristur er of mildur í huga víkingsins á slíkri stund. Og frá hans sjónarmiði var kristin trú og kristin heimsskoðun fullkomnari en ella, ef Þór var tekinn með sem guð karlmennskunnar.

Menning Helga magra var fyrst og fremst norræn, þótt faðir hans væri gauzkur og móðir hans írsk. Allt frá bernsku hefur hann dvalið meðal Norðmanna (Austmanna), sjálfur var hann kvæntur norrænni konu, og synir hans kvæntust einnig norrænum konum. Tengdasynir hans voru og norrænir. Og öll börn hans settust að í Eyjafirði. Hinn norræni konungsson, Hámundur heljarskinn, bróðir Geirmundar konungs heljarskinns, byggði að Espihóli. Annar tengdason Helga, Gunnar sonur Úlfljóts lögsögu-manns, bjó í Djúpadal, og Auðunn rotinn, sonur Þórólfs smjörs, var hinn þriðji tengdasonur hans og bjó í Saurbæ. Og hinn fjórði tengda-sonur Helga var Þorgeir Þórðarson, er bjó að Fiskilæk. Hrólfur Helga-son bjó í Gnúpafelli, og Ingólfur Helgason á Þverá efri (Munka-þverá). Hann var sterkur sá ætt-stofn, er í öndverðu settist að í Eyja-firði, og mun hafa haft mikil áhrif á stjórnarfar, menningu, trú og lífs-skoðanir hinnar íslenzku þjóðar, er þá var í fæðingu. En ættarhöfðing-inn, hinn ókrýndi konungur byggð-arinnar, Helgi hinn magri, mun samt hafa verið áhrifamestur. Hvergi er þess getið, hvort börn Helga hins magra hafa verið kristin eða ekki, en sennilegt er, að svo hafi verið og nær því víst, þar sem foreldrar þeirra töldu sig bæði krist-in. Og af orðum Hrólfs við föður sinn, þegar þeir sigldu norður með Íslandsströnd og Helgi leitaði frétta hjá Þór, hvar land skyldi taka, má ráða, að Hrólfi sé ekkert um þessa véfrétt gefið, og hefur hann senni-lega ekki lagt neinn trúnað á hana.

Víking Norðurlandabúa á víkinga-öld veldur umbyltingu í trú þeirra og lífsskoðunum. Með aukinni þekk-ingu á löndum og þjóðum með ann-arri menningu og lífs- og trúarskoð-unum en ríkt höfðu á Norðurlönd-um, þá hrynja að miklu leyti þeirra gömlu heimsskoðanir, og allskonar efasemdir vakna, er deyfa forna trúarvissu. Því er sagt um suma menn í fornsögunum, að þeir hafi trúað á mátt sinn og megin, og um Hjörleif Hróðmarsson, fóstbróður Ingólfs Arnarsonar, er sagt, að hann vildi ekki blóta. Og virðist Ingólfur hafa trúað því, að þess vegna hafi goðin ekki veitt honum fulltingi gegn þrælunum. En þótt Helgi magri sé sagður blandinn í trúnni, þá hefur hann samt verið trúmaður samkvæmt því, sem áður er sagt. Hann trúir bæði á Krist og Þór. En hvort börn og tengdabörn hafa hall-azt meira að ásatrú eða kristni eftir

að þau settust hér að, er ekkert vitað um. En ekki er ólíklegt, að börn hans, sem öll munu vera fædd á Írlandi, hafi verið trúlaus á kenningar ásatrúarinnar og viljað halda tryggð við Krist, en þau hafa séð sér það hentast að fylgja þjóðvenjum um blótveizlur, þótt þeim væri þær ekkert trúaratriði, en stjórnarfarslegar ástæður munu hafa ráðið þar um, enda kristni þeirra heiðinkristni.

Það er mjög sennilegt, að kristnar hugmyndir hafi haldizt við að meiru eða minna leyti hjá niðjum Helga hins magra, þótt þeir fylgdu heiðnum venjum. Það er ennfremur mjög sennilegt, að trúarskoðanir forföður þeirra hafi lifað í þeirra eigin brjósti, allt til þess tíma, er kristniboð hófst hér á landi. Að minnsta kosti var Eyjólfur Valgerðarson, faðir þeirra Guðmundar ríka og Einars Þveræings, einn meðal hinna fyrstu höfðingja, er tóku kristni, þá er kristniboð hófst hér. Hann var primsigndur af Friðriki biskupi hinum saxneska, en Helgi magri var langafi Einars.

Kristniboð var síðar hafið hér á Íslandi en víðast annars staðar á Norðurlöndum, en það gekk tiltölulega betur að koma hér á kristni en á hinum Norðurlöndunum, og má það að sjálfsögðu rekja til áhrifa þeirra, er landnámsmennirnir, sem komu frá Bretlandseyjum, urðu fyrir, og þá fyrst og fremst til ættar Ketils flatnefs og Helga hins magra. Og aldrei er getið um afturhvarf frá kristni hér á Íslandi eins og varð í Noregi eftir fall Ólafs Tryggvasonar.

Frumkristni Íslands og annarra Norðurlanda má kalla heiðna kristni, enda voru flestir trúboðarnir grimmir víkingar, svo sem sjálfir höfuðpaurarnir, þeir Ólafur Tryggvason og Ólafur Haraldsson. Friðrik biskup frá Saxlandi var sá eini kristniboði hér á Íslandi, sem skildi anda kristinnar trúar og var ekki heiðinkristinn. Við kristniboðið var þó aldrei beitt annarri eins grimmd hér á Íslandi og í Noregi, enda voru Íslendingar ekki eins tregir að láta af blótum og hafna fornri trú sem Norðmenn. Og ég tel víst, að ástæðan hafi verið sú, sem ég hefi áður nefnt, kristnu áhrifin, er landnámsmennirnir fluttu með sér frá Bretlandseyjum.

Þótt fornsögurnar komist ekki svo að orði um neinn landnámsmann, nema Helga hinn magra, að hann hafi verið blandinn í trúnni, þá hafa þeir fleiri verið það og einnig afkomendur þeirra. Þeir, sem kynnzt höfðu kristninni, skildu ekki aðalgrundvöll hennar, kærleikskenninguna. Hún var fjarstæð þeim lífsskoðunum, er þeir voru aldir upp við. Og þegar kristni var hér lögtekin árið 1000, þá voru lífsskoðanir þjóðarinnar að mestu heiðnar sem áður. Það var ekki kærleikskenning Krists, sem sigrar hér á landi það ár, heldur lífs- og trúarskoðanir Helga hins magra; sú skoðun, að rétt væri að helga sig Kristi með skírninni til þess að fá þar með lykilinn að Paradís eftir dauðann, en hafna ekki fornum lífsskoðunum, þótt játazt væri undir nýja guði. Íslendingar voru sem fyrr fjendur óvina sinna og þeirra vina. Þeim var óljúft að fyrirgefa óvinum sínum. Fyrst varð að hefna, en að hefndinni lokinni mátti fyrirgefa. Á seinni hluta 13. aldar, þegar kristni var búin að ríkja

hér í meir en hálfa þriðju öld, þá er það, að Þórður Andrésson biður Gissur jarl að fyrirgefa sér. „Það skal ég gera, þegar þú ert dauður," svaraði jarl, en lét síðan hálshöggva Þórð. Hinn kristni jarl var í eðli sínu jafn heiðinn og víkingur á landnámsöld.

Lífsskoðanir Helga hins magra hafa verið lífseigar gegnum aldirnar. Því að enn er hinn svokallaði kristni heimur í framferði sínu eins mikið heiðinn og kristinn. Og enn má finna baráttuna hér á landi á milli ásatrúar-lífsskoðana og kristinna lífsskoðana. Og í nútíðarbókmenntum má jafnvel finna formælendur fyrir lífsskoðunum ásatrúarmanna. Í sínu snjalla kvæði, Sigurður hreppstjóri, segir skáldið Örn Arnarson:

*„Suðræn hræsni, austræn auðmýkt*
*ýmsar greinar hefir sýkt.*
*Heill er stofninn, innsta eðlið*
*Óðni, Þór og Freyju vígt.*
*Ennþá mundi fáann fýsa*
*að faðma og kyssa böðul sinn.*
*Eftir högg á hægri vanga,*
*hver vill bjóða vinstri kinn?*

*Ennþá getur Íslendinga,*
*eilífðin sem verður löng,*
*hafi þeir það eitt að iðju*
*englum með að kyrja söng.*
*Ásatrú á hugann hálfan.*
*Hálfu fremur margur kýs*
*einherji í Valhöll vera*
*en vængjað þý í Paradís."*

Skáldið gerist hér talsmaður ásatrúarinnar, en samt var hann ekki síður kristinn en menn eru almennt. En það má segja, að hann hafi verið blandinn í trúnni ekki síður en Helgi hinn magri. En 10 aldir eru á milli þeirra. En þó telur skáldið, að ásatrú eigi „hugann hálfan". Og hann er meiri talsmaður ásatrúarinnar en Helgi hinn magri. Svo lífseigar eru rætur ásatrúarinnar í lífsskoðunum skáldsins og raunar fjölda Íslendinga. Svo mjög eru þeir blandnir í trúnni sem forfaðir þeirra Helgi hinn magri. Trúarkerfi verða ekki, þótt aldir líði, þess megnug að breyta innsta eðli manna. Örn Arnarson lýsir Sigurði hreppstjóra bæði kristnum og heiðnum í lífsskoðunum og að því leyti svipar honum til Helga hins magra. En margt er ólíkt með þeim. Helgi trúði bæði á Krist og Þór, en Sigurður hreppstjóri

*„kallaði eigi á Krist né Þór,*
*kæmi honum vandi að höndum"*

Og hann trúir ekki á annað líf, því að hann

*„gekk til síðsta svefns með ró*
*og sagðist aldrei mundu vakna."*

En hann sýnir sama þrekið og norrænn víkingur, þegar hann sér dauða sinn nálgast. Hann hefur kastað frá sér öllum trúkerfum og trúnni á annað líf og tekur örlögunum með karlmennsku. Hann líkist mjög þeim fornmönnum, er sögurnar segja, að hafi trúað á mátt sinn og megin. Og líklega hefur hann heitið sjálfum sér því, að hann skyldi samt ekki blikna né blána, þótt svo færi, að hann þvert á móti trú sinni vaknaði í öðrum heimi.

Helgi magri var mikill trúmaður. Hann mun hafa verið sanntrúaður á annað líf, og hann mun hafa talið sér vissa vist í Paradís ásamt brúði sinni, Þórunni hyrnu. Á sólríkum dögum og friðsömum tímum hefur

Kristur verið ástvinur hans. Þá mun hann og hafa verið góður þrælum sínum og smámennum og öllum þeim, sem hjálpar hans leituðu. Hann hefur og líka rækt þá skyldu ásatrúarmanna að vera góður vinur vina sinna og þeirra vina, jafnt á friðartímum sem í ófriði. En ekki mun hann hafa elskað óvini sína eða þeirra vini.

Á víkingaöld var oft róstusamt, vopn varð að bera og vopnum varð að beita, ef óvinir sýndu ágang. En Kristur var ekki orustuguð. Hann hafði ekki einu sinni reynt að verja sig, þegar óvinir hans tóku hann höndum til krossfestingar. Í þessu efni gat Helgi hinn magri ekki tekið Krist sem fyrirmynd. Honum hafði að vísu verið sagt af kristnum prestum, að Guð hefði fórnað syni sínum fyrir mannkynið. Og Helgi vissi, að mannfórn var dýrari fórn en venjuleg fórn, og þó sérstaklega, þegar maðurinn, sem fórnað var, var sonur Guðs, æðsta stjórnanda alls heimsins. En Helgi þarfnaðist guðs, sem gat hjálpað í orustum og harðræðum. Miskunnsemi eða athafnaleysi gat ekki bjargað honum né vinum hans og frændum, ef óvinir leituðu á þá. Þá þurfti að sýna karlmennsku og neyta krafta. Þar var guð kraftanna, Ása-Þór, nauðsynlegur hjálparvættur. Enda var Þór dýrkaður meira af samtíðarmönnum Helga hins magra hér á Íslandi en nokkur annar guð. Íslendingar hafa líka bæði fyrr og síðar helgað honum fjölda sona sinna og dætra með nafngjöfum.

Ég hefi áður talið víst í erindi þessu, að Helgi hinn magri muni hafa talið sér vísa vist í Paradís. Hann hefur sennilega ekki óttazt „Lykla-Pétur“, þótt Pétur hefði ef til vill horn í síðu hans fyrir vináttu við Þór. Því að ef postulinn vildi ekki hleypa honum inn með góðu, þá myndi Þór vinur hans ógna honum með því að reiða hamarinn Mjölni og beina honum að dyrum Himnaríkis, en þær ógnir myndi „Lykla-Pétur“ ekki standast.



## Einn um nótt

BROT

*Drotning svefns og drauma þúsund-eygg*
*dregur mánasilkitjöld um sviðið.*
*Grösin dotta út um engi og teig;*
*inn í fylgsni þyrpist rökkurliðið.*
*Mús í holu, hind um skógargöng*
*hlusta á næturleiksins undirsöng.*
*Drýpur, drýpur dögg úr himins laugum,*
*drunga-geigur smýgur eftir taugum.*
*Þeim sem vakir verður nóttin löng.*

G. J.

SÉRA ALBERT E. KRISTJÁNSSON:

# Jón Jónsson (frá Sleðbrjót)

## ALDARMINNING

*„Og það er Íslands hæsta hrós*
*Í hugarsjón og ritum,*
*Að eiga þessi augun ljós*
*Í alþýðunnar vitum,*
*Frá lágu bónda sæti er sjá*
*Um sína veröld alla*
*Í sveitarþröng og hömlum hjá:*
*Hvert hafsins straumar falla.“*

Ljóðlínurnar hér að ofan eru teknar úr kvæði, er Stephan G. Stephansson orti árið 1924 um Jón Jónsson (frá Sleðbrjót) látinn, og verður enn vitnað í það kvæði síðar í greinargerð þessari.

Það er ekki ætlun mín með þessum línum, að rita æfisögu Jóns; til þess skortir mig heimildir, enda gjöri ég ráð fyrir að það verði gjört (og ætti að verða gjört heldur fyr en síðar) af einhverjum hinna mörgu rithæfu manna á Íslandi, þar sem öll nauðsynleg gögn eru fyrir hendi. Hitt hafði ég ætlað mér: að skjalfesta nokkra drætti í þeirri mynd, sem ég geymi í eigin huga af einum af hinum merkari og mér kærum samtíðarmanni.

Þess eins má geta hér, að Jón var kominn af góðu bændafólki í Norður-Múlasýslu og vísa ég um það til Almanaks O. S. Th. fyrir árið 1914, en um framætt hans til sama Almanaks fyrir árið 1936. Þar er að finna ættartölu Sigríðar Bjarnadóttur, eftir náfrænda hennar, séra Einar Jónsson, prófast, frá Hofi. En þau Sigríður Bjarnadóttir og Jón frá Sleðbrjót voru bræðrabörn. Er þessi ætt rakin til margra merkustu manna landsins gegnum aldirnar og til ýmsra hinna frægustu landnámsmanna; þar á meðal Ingólfs Arnarsonar.



JÓN JÓNSSON

Íslendingar hafa jafnan lagt mikið

upp úr ætterni, en enginn maður ræður þó neinu um ætt sína. Umhverfið (uppeldi, fræðslutæki, aldarfar, alment siðgæði o. s. frv.) er sá annar hlutur er mótar manninn, en hér er það einnig að athuga, að maðurinn skapar að nokkru leyti umhverfið. Þegar meta skal einn mann virðist því nauðsynlegt að þekkja ætt hans og sögu tímabilsins, sem hann lifði og starfaði á, og spyrja síðan þessara spurninga: var hann ætt sinni til sæmdar? Og miðaði starf hans að því að bæta umhverfið eða spilla því? Þetta tvöfalda próf hefir Jón Jónsson, frá Sleðbrjót, staðist þannig (að mínum dómi) að hann á skilið að hljóta ágætis einkunn.

Lítum þá sem snöggvast á umhverfið, sem Jón er fæddur inn í. Hann var fæddur á Hnitbjörgum í Norður-Múlasýslu 2. nóv., 1852. Jónas Hallgrímsson (dáinn 1845) hafði þá nýlokið sínu upplýsinga og viðreisnarstarfi í samvinnu við þá aðra „Fjölnismenn“ o. fl., en ljóð hans voru þá hið lifandi orð á vörum þjóðarinnar. Barátta Jóns Sigurðssonar var hafin. Árið áður en Jón fæddist orti Bólu-Hjálmar hinn fræga Þjóðfundarsöng sinn: „Aldin móðir aðalborna“ o. s. frv. Uppreisnarandi mót útlendri kúgun hafði verið vakinn í landinu. Alþýðan var farin að „hrista klafann“ og „sjá, hún var voldug og sterk,“ eins og Einar Benediktsson komst að orði. En alþýðan á Íslandi bjó enn við mjög bágborin kjör. Hinir vitrari og djarfari alþýðumenn voru farnir, í fullri alvöru, að leita að leiðum til bjargráða. Þeir fundu tvær leiðir: aðra, að berjast fyrir umbótum á landinu sjálfu; hina að flytja til útlanda. Þeir brutust áfram eftir báðum. Hina fyrri fetaði Jón með skarpskygni, festu og dáð meðan kostur var, en varð þó að reyna hina síðari áður en æfi hans lauk.

Hinn 14. júlí, 1876, giftist Jón Guðrúnu Jónsdóttur, hinni mestu ágætis konu (sjá um ætt hennar í Almanaki O. S. Th. fyrir árið 1914); var Jón þá 24 ára að aldri en Guðrún 21. Byrjuðu þau búskap það sama ár og bjuggu síðan á ýmsum stöðum í Jökulsárhlíð og Hróarstungu (þó lengst á Sleðbrjót) þar til þau fluttu vestur um haf árið 1903, að undanteknum 2 eða 3 árum, er þau höfðu greiðasöluhús í Vopnafjarðar kaupstað. Hér vestra bjuggu þau í Álftavatnsbyggðinni fyrstu árin, en síðar í Siglunesbyggðinni við Manitobavatn. Þau eignuðust mannvænlegan hóp barna og vísast um þau til Almanaksins 1914. Hér vil ég aðeins geta þess að heimilislíf þeirra hjóna og barna þeirra var ætíð hið ástríkasta, og geyma börn þeirra minningu ástríkra og göfugra foreldra sem dýran fjársjóð.

Þegar í æsku var Jón mjög gefinn fyrir lestur góðra bóka en mentunarskilyrði voru í þá daga lítil eða engin fyrir alþýðufólk. Einhverja undirstöðutilsögn fékk hann þó í reikningi og dönsku. Segir Jóhann Pálsson, sá er þáttinn um Jón hefir skrifað og í þessum línum er til vitnað, að þessi tilsögn hafi verið aðeins tvær vikur og hafi það verið öll hans skólaganga. Þrátt fyrir það tókst Jóni að afla sér meiri fróðleiks en maður finnur hjá mörgum „útlærðum“ skólamönnum. Hefi ég kynst slíku fyrirbæri víðar, þó fágætt sé, að vonum, því til þess þarf bæði meiri

andlegar gáfur og meiri fróðleikslöngun en alment gerist. Jón hafði þessar gáfur og þessa þrá í ríkum mæli. Hann var síspyrjandi og síleitandi; athugull og gætinn; fordómalaus og fús að líta á hlutina frá öllum hliðum áður en hann sló nokkru föstu. Hann var áreiðanlega efni í hinn ágætasta fræðimann. Þegar ég kyntist honum hér vestra gat ég ekki annað en dáðst að þekkingu hans og skilningi, ekki aðeins á íslenzkum bókmentum og sögu heldur líka á sögu og bókmentum annara þjóða; en einkum dáðist ég þó að skarpskygni hans og skilningi á stefnum og straumum samtíðar sinnar, er gerði honum mögulegt að sjá langt fram í framtíðina, eða eins og Stephan G. Stephansson orðaði þetta:

*„Og þú varst einn af þessum, Jón,*
*Sem þjóða skildir verkin.*
*Og hvessa árdags-augna sjón*
*Langt inn í stefnumerkin —*
*Með fögnuð alt þú lagðir lið*
*Þitt listum, sannleik, frelsi,*
*Þó tryðir, að yrði beðin bið,*
*Unz brysti sérhvert helsi."*

Snemma var áhugi Jóns fyrir almenningsmálum vakinn og fór hann að taka virkan þátt í héraðs- og landsmálum þegar hann var um eða innan við þrítugt. „Hann var stöðugt í sveitarstjórn úr því, nema tvö ár, þar til hann flutti vestur um haf: ýmist hreppsnefndarmaður, oftast oddviti, sýslunefndarmaður, varamaður í amtsráði síðustu árin og hreppstjóri í eystri hluta Vopnafjarðarhrepps frá 1900 til 1903. Póstafgreiðslumaður var hann líka þau ár, og afgreiðslumaður erlendra skipa."

(Það sem hér er sagt um stjórnmálaferil Jóns, er orðrétt tekið upp úr grein Jóhanns Pálssonar, sem áður er vitnað til).

„Árið 1886 bauð Jón sig fram til þingsetu fyrir Norður-Múlasýslu, en féll með litlum atkvæðamun fyrir Einari sýslumanni Thorlacius. Átti Jón um þær mundir talsverðri mótstöðu að mæta, einkum af hendi „heldri manna" sýslunnar. Hann hafði skrifað í blaðið „Austra" allharðorðar aðfinningar um búnaðarskólann á Eiðum; höfðaði þá skólastjóri, Guttormur Vigfússon, mál á móti Jóni; urðu í því máli svo miklar vitnaleiðslur, að málsskjölin voru 76 þéttskrifaðar stórar arkir, en það fór úr héraði fyrir yfirdóm. Tapaði Jón málinu bæði í héraði og fyrir yfirdómi, og var dæmdur í 100 króna sekt og allan málskostnað, er nam nær 600 krónum. Var það margra mál, að þar hefði margur góður drengur svarið „loðinn eið" á móti Jóni. Málskostnað og sekt borgaði Jón þegar að fullu, og átti þá fremur erfiðan hag. Valdimar verzlunarstjóri Davíðsson á Vopnafirði skoraði þá á sýslubúa að bæta Jóni málskostnaðinn, því hann hefði flutt rétt mál, þó alþýðan hefði brugðist honum í vitnisburðum í málsvörninni. Urðu það eitthvað á þriðja hundrað kr., er saman komu til að bæta Jóni skaðann. — En afleiðingin af þessu máli varð sú, að Guttormur fór frá skólanum og skólinn fékk meira álit eftir það fyrir reglusama bústjórn. Sigurður bóndi og læknir á Breiðavaði hitti Jón að máli, þegar dómur var fallinn, og mælti við hann: „Nú

hefir réttvísin dæmt þig, en nú á alþýðan eftir að kveða upp sinn dóm. Þú verður kosinn þingmaður að ári.“ — Þessi spá Sigurðar læknis rættist, því þetta ár lagði Einar Thorlacius niður þingmensku þar eð stjórnin bannaði sýslumönnum þingsetu, nema þeir settu löglærðan mann til að reka embættisstörf þeirra, meðan þeir sætu á þingi. Aukakosning fór fram vorið 1889 í Norður-Múlasýslu. Bauð Jón sig þá aftur fram til þingfarar, en móti honum Sigurður prófastur Gunnarsson á Valþjófsstað. Við fyrri kosninguna höfðu allir embættismenn sýslunnar fylkt sér á móti Jóni, að undanteknum séra Sveini Skúlasyni á Kirkjubæ og Einari lækni Guðjohnsen á Vopnafirði. Og nú var þeim enn meira kappsmál að fella Jón, enda var séra Sigurður hið vænlegasta þingmannsefni og vinsæll. En svo lauk kosningunni, að Jón var kosinn með 16 atkvæðum yfir. Eftir það náði Jón kosningu nær mótstöðulaust til 1899. Þá hljóp á snurða milli hans og kjósenda, er málið um leysing vistarbandsins kom til umræðu. Jón fylgdi fast leysing vistarbandsins. En bændur í Múlasýslum og hinir þingmenn Austfirðinga voru allir á móti því máli, nema séra Lárus Halldórsson. Var fundur haldinn af 200 kjósendum á Þórsnesi, úr báðum sýslunum fyrir kjörfund 1893 og var þar rætt um málið af kappi. Voru aðeins 6 atkvæði með málinu; skoruðu þá margir vinir Jóns á hann að breyta stefnu í því máli, svo þeir gætu veitt honum fylgi, og bar einn þeirra fram tillögu um það á fundinum. Þeirri tillögu svaraði Jón þannig: „Ég býð mig fram til þingmensku, eins og ég hefi lýst yfir, og ég fylgi málinu um leysing vistarbandsins eins og ég bezt get. Það eru 3 mánuðir til kjörfundar, og nægur tími fyrir þá, er ekki vilja veita mér lið, að vera sér úti um annað þingmannsefni. Skoðun minni breyti ég ekki, enda munduð þið ekki virða mig meira, þó ég seldi sannfæring mína fyrir atkvæði ykkar.“ — Úrslitin urðu þau, að enginn annar bauð sig fram.

Árið 1900 bauð Jón sig ekki fram til þingsetu. Olli því heilsubrestur. Vorið 1902 bauð hann sig aftur fram til þings, og varð baráttan aðallega milli hans og Jóhannesar sýslumanns Jóhannessonar, bæjarfógeta á Seyðisfirði. Var sú kosning sótt af miklu kappi og hafði Jón enn sem fyr alla embættismenn á móti sér, að viðbættum öllum hreppstjórum, nema tveimur. Lauk þeim bardaga þannig, að Jón varð hlutskarpari, fékk 6 atkvæði fram yfir sýslumann. — Hefir Jón oft sagt í gamni síðan, að af því hann sé kominn á raupsaldur, þá verði hann að hæla sér af því, að hann sé sá eini, er borið hafi gæfu til að standa á kjördegi yfir höfuðsvörðum fornvinar síns Jóhannesar sýslumanns.

Ummæli merkra manna um Jón á þingárum hans eru:

„Fjallkonan“ 1889: „Hinn nýi þingmaður, Jón frá Sleðbrjót, reyndist vel. Hann fylgdi fast sínum flokki, en sýndi þó í ýmsum málum, að hann hefir sjálfstæðar skoðanir.“

Palladómar Valdimars Ásmundssonar um þingmenn 1894: „Jón á Sleðbrjót er ekki fríður sýnum, en glaðlegur og einarðlegur. Hann er vel máli farinn, hefir snjallan róm og skýran og getur verið bituryrtur

þegar því er að skipta. Hann er frjálslyndur í öllu, kirkjumálum líka."

Þegar vistarbandsmálið var til annarar umræðu í neðri deild alþingis 1895, urðu um það allharðar umræður. Töluðu móti því beztu ræðumenn andstæðinganna, Guðlaugur sýslumaður Guðmundsson o. fl. Um umræðurnar fórust Hannesi Þorsteinssyni svo orð í „Þjóðólfi" daginn eftir: „Umræðurnar voru allharðar; fanst oss Jón frá Sleðbrjót tala þar snjallast allra."

Ég hygg, að það sem hér að ofan er tekið upp eftir Jóhanni Pálssyni sé rétt frá sagt, því það er ritað meðan Jón var enn á lífi og hefði að öllum líkindum verið leiðrétt af honum ef eitthvað hefði þar verið missagt. Þó er ég ekki alveg ánægður með eitt orð í því, sem tekið er upp eftir Valdimar Ásmundssyni, þar sem hann segir: „Hann (Jón) var frjálslyndur í öllu, kirkjumálum líka." Orðið „frjálslyndur" er of óákveðið, getur þýtt allt og ekkert. Ég mundi segja: Jón var umbótamaður í öllu, því hann var glöggskygn á stefnur og strauma samtíðar sinnar og sá nauðsyn þess að veita þeim í þann farveg sem leiða mundi til fegurra og farsælla mannlífs, en stýra fram hjá slysum og ógæfu. Hann skildi, eins og Stephan G. Stephansson, að „það er ekki oflofuð samtíð, en umbætt og glaðari framtíð sú veröld, er sjáandinn sér," og Jón var einn hinna alt of fáu „sjáenda," er fýsir að fórna starfi sínu og lífi í þjónustu þeirrar veraldar.

Jón var mjög vel máli farinn, eins og ofanskráð ummæli um það benda til. Hann var líka prýðilega ritfær maður og er það skaði að hann ritaði ekki meir en hann gjörði. Af þeirri kynning sem ég hafði af honum persónulega og því sem ég hefi séð eftir hann á prenti, er ég alveg samdóma því, sem St. G. St. hefir um það að segja í bréfum til Jóns, rituðum kringum 1913. Vil ég hér tilfæra nokkra kafla úr þeim: „Ég hefi lesið alt, sem þú hefir skrifað í blöð hér, og þótti vel ritað. Ég varð svo fanginn að sjá fallegt mál og skipulega hugsun og góðfrjálslega innan um argið okkar vestræna .... Heyrðu, Jón minn, þú átt að rita og brenna sem minnst .... Þið eldri menn, sem pennafærir eruð og kynnzt hafið mest áberandi mönnum heima eða hér, ættuð að skrifa minningar ykkar, og segja orð og viðburði, sem þið sjálfir vitið, grímulaust og gremjulaust, en krækja ekki eftir, hvað kemur sér nú. Mér finnst þú skrifa svo sanngjarnt, að þú gætir það. Það styður seinni tíð til sanngjarnrar sögu .... Nei, ég má ekki sleppa þessu alveg um „minningarnar". Getur vel verið að þú sért ekki sögumaður, að þig skorti eiru við upptíninginn .... Íþróttin við minningaritun held ég sé fyrst og fremst sú ráðvendni, sem með ekkert vill rangt fara, hvorki um það sem er ástfólgið, né andstætt sér. Svo ekki síður hitt, þessi glöggleiki, sem grípur um leyniþræði skaplyndis og hugarfars áhrifamannanna niður í hversdags smámunum orða og atvika, sem bæði geta verið brosleg og raunaleg. Sem sé, ég ímynda mér, að það þurfi einmitt eitthvað af næmleik skáldsins, sem þú munt hafa, til að rita góðar minningar, fremur en fræðireglur sögumannsins

út í æsar. Þá er hið þriðja, hugrekkið, sem til þess þarf að segja satt um vini sína stundum, og fella ryk á frægðarskjöld góðra manna í gröfinni."

Og um þessar gáfur Jóns og skapgerð gat Stephan ekki rangt, þó viðkynning þeirra væri að mestu eða öllu leyti gegnum bréfaskifti. „Sannleiksást," „glöggleiki," „næmleiki skáldsins" og „hugrekki;" þessu öllu kyntist ég að nokkru sem gestur á heimili Jóns við Siglunes og annars staðar þar sem fundum okkar bar saman. Höfðingslund hans var einnig auðsæ og auðfundin hverjum þeim sem gisti hann. Ég var þar næturgestur oftar en einu sinni. Heimilið var meðal hinna betri þar í sveit þó önnur hús í sveitinni væru stærri og veglegri að ytri sýn, en þegar inn var komið og maður kyntist heimilisfólkinu, stækkaði húsið og varð að höfðingjasetri. Heimilisfólkið var alt glatt og alúðlegt í viðmóti og lét sér í öllu ant um þægindi gestsins. Viðræðurnar við húsbóndann voru ærin nóg skemtun, sem maður gat unað við fram á nætur. Hann var glaðlegur í viðmóti og talaði af fjöri og áhuga um stjórnmál, trúmál, strauma og stefnur tímans, skáldskap og bókmentir. Skoðanir sínar um öll þessi mál lét hann í ljós hispurslaust en með sanngirni og stilti vel í hóf. Aldrei heyrði ég hann fara meiðandi orðum um þá, sem verið höfðu andstæðingar hans. Hann kannaðist fúslega við kosti þeirra og um suma þeirra fór hann vingjarnlegum orðum. Það voru málefnin en ekki mennirnir, sem deilt var um. „Að hata til eilífðar málstað eins manns, en manninum sjálfum að bjarga," sagði Stephan G. Þetta er sú lífsregla, er Jón hefði gjarnan viljan fylgja. Hann unni mjög skáldskap og fögrum listum og hvers kyns íþróttum. Alt þetta vildi hann efla með þjóð sinni og hann hækkaði í sessi í hvert sinn, er frétt barst honum um það, að Íslendingar hefði getið sér góðan orðstír á þessum sviðum, enda bar hann í brjósti fölskvalausa ást til lands og þjóðar. Þó var hann enginn „nesjamaður" í þessum sökum; til þess var hann alt of víðsýnn og hafði glöggvað sig á því, löngu á undan Wendell Wilkie, að þessi heimur okkar er „einn heimur." Ég hygg, að af íslenzku skáldunum hafi honum þótt vænst um Þorstein Erlingsson og Stephan G. Stephansson, að minsta kosti var oftast til þeirra vitnað þegar við áttum tal saman, og ég held ekki að ég hafi átt þar alla sök. Hitt veit ég, að okkur þótti báðum gott að eiga sálufélag með þeim.

Jón hafði viðkvæma lund. Þess vegna voru honum börn sérstaklega kær og þess vegna var hann sjálfkjörinn málsvari allra þeirra, er báru skarðan hlut frá borði lífsins. Þetta skapar hinn rauða þráð, er rekja má í gegnum allan hans starfsferil, og sem er uppistaðan í stefnu hans í þjóðmálunum. Hann barðist fyrir efnalegu sjálfstæði og pólitísku sjálfstæði þjóðar sinnar; en hann vildi líka hefja hinar svokölluðu lægri stéttir í landinu, bændurna og vinnufólkið, og bæta kjör þeirra. Þess vegna voru líka embættismenn og „heldri menn" yfirleitt á móti honum. Hann var glöggskygn á hverja hreyfingu andstæðinga sinna og fljótur að sjá hvar fiskur lá undir

steini, en hann forðaðist að beita öðrum vopnum en þeim, sem góðum dreng sæmdi. Hann sagði eitt sinn í samtali við mig þegar tilrætt var um eitthvað af hinum miður sæmandi pólitísku brögðum, sem okkur fanst vera alt of mikið í móð: „Já, maður verður að biðja fyrir sér í hvert sinn sem maður fer til þings, að maður komi ekki þaðan verri maður en maður fór þangað.“

Eftir að vestur kom tók Jón ekki mikinn þátt í pólitík, enda var hugur hans enn fast bundinn við íslenzk þjóðmál. Einkum var hann brennheitur fyrir baráttunni fyrir fullveldi Íslands og lagði hann þar orð í belg úr fjarlægðinni. Var hann þar sem fyr glöggskygn á menn og stefnur. Hér greiddi hann atkvæði þeim mönnum og flokkum sem hann í hvert sinn áleit að stefndu eitthvað í áttina til umbóta eða væri að minsta kosti það skárra af tvennu illu. En yfir öllum velferðarmálum hinnar íslenzku þjóðar var hann sívakandi og síreiðubúinn til að leggja lið sitt öllu því, sem aðrir þjóðræknis Íslendingar hér vestra vildu vinna heimalandinu til hagsbóta, svo sem Eimskipamálinu o. fl.

Þó tók hann sinn fulla þátt í almennum málum sveitar sinnar. Hann var í stjórn lestrarfélagsins í Sigluness og Narrows byggðum og í skólanefnd Sigluness skólahéraðs; var hann ritari og féhirðir þeirrar nefndar. Hann skrifaði greinar í ýms íslenzk blöð og tímarit. En það hygg ég vera allmikinn skaða að hann skyldi ekki sjá sér fært að verða við tilmælum vinar síns, Stephans G. Stephanssonar, um að rita minningar sínar.

Í nýlega komnu bréfi til mín frá einum af vinum Jóns hér vestra, sem vissi að ég var að skrifa um Jón, segir bréfritarinn meðal annars þetta: „Jón var höfðingi í lund og stundum stórtækur um efni fram; lund hans var afar viðkvæm, einkum ef börn og umkomuleysingjar áttu í hlut; hann var vitur drengskaparmaður.“ Þetta er vel og maklega mælt. Læt ég hér svo staðar numið. Þó ég vildi feginn hafa betur gjört, ef gögn hefðu verið næg fyrir hendi. Læt ég svo St. G. St. hafa síðasta orðið með því að setja hér síðasta erindið úr kvæði hans um Jón, sem ég vitnaði til í byrjun þessa máls:

*„En þó að hverfi myndin manns*
*— Og minning jafnvel — frá oss,*
*Öll velvildin og vitið hans*
*Mun verða eftir hjá oss,*
*Sem betri tíða auki er*
*Í átt til marksins hærra.*
*— Þó Ísland sýnist eiga hér*
*Nú einum drengnum færra.“*



ÞORSTEINN Þ. ÞORSTEINSSON:

# Himnaríki

*Í hvelfingum alheimsins efstu*
*er æskunnar vorríki bjart,*
*sem bölinu breytir í unað*
*og býr þig í vorljómans skart.*

*Það smíðað var áður á öldum*
*en upprisu kristninnar menn,*
*sem vegsauka og völdin því gáfu*
*í von, sem er lifandi enn.*

*Þeir hrumu og hreldu og þjáðu*
*og hræddu við síðasta kvöld,*
*í eilífðarunaðinn flytja,*
*sem ábyrgjast kristninnar völd.*

*Og víst er það veglegri endir*
*en vera ekki lengur til,*
*því minningar götóttar gleymast*
*og gera smá reikningsskil.*

*Að mega um eilífar aldir*
*í alsælu þroskanum ná,*
*er fegurra, helgara, hærra*
*en hugur vor grípa má.*

*Þótt sannleika engan ég sjái*
*í sælunnar vorfögru trú*
*og vonirnar fjöllin ei flytji*
*— samt falslaust ef trúir þú.*

*af mætti þíns huga og hjarta*
*og hrópar á miskunn og náð,*
*þér finst oft þú hjálpina hljótir*
*og himininn gefi þér náð.*

DR. RICHARD BECK:

# Höfundur þjóðsöngs íslenzkra sveita

Meðal þeirra manna, sem mér þótti vænst um að geta hitt að máli í Íslandsferð minni lýðveldishátíðarsumarið 1944, var Sigurður Jónsson bóndi og skáld frá Arnarvatni í Mývatnssveit; en ég hafði á unglingsárum, eins og aðrir á því aldursskeiði út um sveitir landsins, hrifist af hinum fagra átthagaóði hans „Sveitin mín“, alkunnara sem „Fjalladrottning, móðir mín“, og þó líklega kunnast og kærast undir heitinu „Blessuð sértu, sveitin mín“; og frá því ég fyrst lærði kvæðið, bar ég í brjósti einlægan þakkarhug til skáldsins. Fundum okkar Sigurðar Jónssonar bar saman á fjölmennri samvinnu- og lýðveldishátíð að Hrafnagili í Eyjafirði 24. júní á umræddu sumri, og gafst mér, þó minni væri tími til samtals en ég hefði kosið, tækifæri til að votta hinu aldurhnigna skáldi og samvinnufrömuði þökk mína og virðingu. Verð ég langminnugur þess, hversu hlýlega hann vék að mér, svo að nú, er ég minnist þeirra samfunda, get ég tekið mér í munn orð séra Matthíasar Jochumssonar og sagt heilum huga: „Þökk fyrir handslagið hlýja!“



SIGURÐUR JÓNSSON

Hitt þótti mér eigi síður mikið um vert og hitaði mér eigi minna um hjartarætur, hversu drengilega og af miklum innileik Sigurði skáldi féllu orð í garð Íslendinga vestan hafs, enda var það í fullu samræmi við hug hans til þjóðsystkinanna þeim megin hafsins, eins og fram kemur í ýmsum kvæðum hans, og síðar mun nánar getið.

Væri það eitt ærin réttlæting þess, að stutt minningargrein um Sigurð og skáldskap hans birtist hér í ritinu, en hún er auk þess sérstaklega tímabær af þeirri ástæðu, að á komandi sumri eru rétt 75 ár liðin frá fæðingu skáldsins.

I.

Sigurður Jónsson er fæddur að Hólum í Saurbæjarhreppi í Eyjafirði 25. ágúst 1878. Þar bjuggu þá foreldrar hans Jón Hinriksson og þriðja kona hans Sigríður Jónsdóttir. Fluttu þau þangað úr Mývatnssveit 1876, en svo þaðan aftur til Mývatnssveitar, að Helluvaði, 1879. Þar ólst Sigurður upp og var kenndur við Helluvað lengi fram eftir aldri.

Jón Hinriksson var ættaður úr Skagafirði, sonur Hinriks Hinrikssonar frá Tunguhálsi af ætt Hrólfs sterka Bjarnasonar; en móðir Jóns var Þorgerður Jónsdóttir frá Gili í Eyjafirði. Jón Hinriksson var fjölhæfur gáfumaður og nafnkenndasta alþýðuskáld í Þingeyjarsýslu á síðari hluta 19. aldar. Safn kvæða hans, *Ljóðmæli*, kom út á áttræðisafmæli hans 1909. Sigríður kona Jóns var dóttir Jóns bónda Jónssonar á Arnarvatni og konu hans Guðrúnar Ólafsdóttur. Voru þau Sigríður og Jón Stefánsson rithöfundur (Þorgils gjallandi) hálfsystkin, sammæðra. Bæta má því einnig við, að meðal barna Jóns Hinrikssonar og Friðriku Helgadóttur fyrstu konu hans voru þau Jón í Múla, hinn þjóðkunni stjórnmálaskörungur, og Sigríður, móðir Sigurðar Bjarklind kaupfélagsstjóra.

Sigurður Jónsson ólst upp á Helluvaði í stórum systkina hópi, á góðu heimili, en við fátækt og mikla vinnu og erfiða. Hann fór til náms í Möðruvallaskóla haustið 1897, og brautskráðist þaðan vorið 1899 með ágætiseinkunn, hæstu einkunn, er veitt hafði verið í skólanum fram að þeim tíma. Hefir hann í ítarlegri grein og vel saminni (í bókinni *Minningar frá Möðruvöllum*, Akureyri 1943) lýst skólalífinu, kennslu og kennurum á Möðruvöllum í sinni tíð, og ber hinum gamla skóla sínum vel söguna. En sjálfur skipar Sigurður sæmdarsess í hópi þeirra landskunnu og þjóðnýtu manna á ýmsum sviðum, sem nám stunduðu á Möðruvöllum undir handleiðslu þess ágæta og farsæla skólamanns, Jóns Hjaltalíns skólastjóra og mætra og merkra samkennara hans.

Auðsætt er einnig, að fræðslan og menningaráhrifin frá Möðruvöllum hafa fallið í frjóan jarðveg hjá Sigurði og vakið hann til framkvæmda, en því er bezt lýst í eftirfarandi ummælum Jónasar Þorbergssonar útvarpsstjóra í prýðilegri minningargrein hans um Sigurð (*Tíminn*, 13. marz 1949):

„Heimkominn úr skóla 21 árs gamall gerðist hann framtaksmaður um fræðslu barna og unglinga í sveit sinni og stofnaði skóla, löngu áður en þeim málum var skipað með lögum. Jafnframt gerðist hann hvatamaður að útgáfu sveitarblaðs og átti þar drjúgan þátt um margra ára skeið.“

Stundaði Sigurður á þessum árum kennslu á vetrum, en sveitarvinnu á sumrum. Vorið 1902 kvæntist hann Málfríði Sigurðardóttur Magnússonar bónda á Arnarvatni og konu hans Guðfinnu Sigurðardóttur. Hófu þau ungu hjónin búskap á Arnarvatni, bjó Sigurður þar síðan, og var eftir það jafnan kenndur við þann stað. Þau hjónin eignuðust sjö börn; sonur, Jón að nafni, dó kornungur, en hin, er upp komust, eru þessi: Freydís, Ragnar, Arnljótur, Heiður,

Huld og Sverrir. Málfríði konu sína missti Sigurður frá þeirra stóra barnahóp árið 1916, og var honum með fráfalli hennar á bezta skeiði, sem vænta mátti, þungur harmur kveðinn, þó að hann bæri þá djúpu sorg í hljóði, enda var hann svo skapi farinn, að dómi kunnugra, að hann flíkaði sjaldan tilfinningum sínum.

En það var Sigurði harmabót og gæfa, að hann kvæntist á ný árið 1918 hinni mestu afbragðskonu, þar sem var Hólmfríður Pétursdóttir Jónssonar alþingismanns og ráðherra á Gautlöndum, er lifir mann sinn ásamt fimm börnum þeirra hjóna: Þóru, Arnheiði, Jóni, Málfríði og Eysteini. „Reyndist Hólmfríður mikil húsfreyja og frábær móðir stjúpbörnum sínum eigi síður en eigin börnum. Er Hólmfríður landskunn vegna skörungsskapar eins og hún á ætt til og vegna þátttöku sinnar í málefnum kvenna.“ (Jónas Þorbergsson í fyrrnefndri grein sinni). Eins og kvæði hans til hennar bera með sér, kunni Sigurður einnig vel að meta þessa mikilhæfu og ágætu konu sína.

Sigurður andaðist í sjúkrahúsi Akureyrar hinn 24. febrúar 1949 eftir þunga sjúkdómslegu. Gekk með honum grafarveg mikilsvirtur bændahöfðingi, er einnig hafði skipað vel sess sinn á Bragabekk.

II.

Þó að Sigurður Jónsson ætti fyrir stóru og mannmörgu heimili að sjá, helgaði því fyrst og fremst krafta sína og gengi þar að allri erfiðisvinnu meðan heilsa hans leyfði, gegndi hann jafnframt fjölda trúnaðarstarfa í þágu sveitar sinnar og héraðs, og það í svo ríkum mæli, að hann stóð í fremstu röð slíkra forystumanna. Hann átti sæti í hreppsnefnd um 15 ára skeið, og var formaður Búnaðarfélags sveitar sinnar í 35 ár. Fulltrúi Þingeyinga á Búnaðarþingi var hann í 10 ár og jafnframt endurskoðandi hjá Búnaðarfélagi Íslands.

Einkum hafði Sigurður þó snemma á árum orðið snortinn af hugsjónum samvinnuhreyfingarinnar, af þeirri öldu þessarar merku og áhrifamiklu félagsmálahreyfingar, er fór eldi vakningar um Þingeyjarsýslu á æskuárum hans. Vann hann einnig fyrr og síðar mikið fyrir samvinnufélagsskapinn og útbreiðslu samvinnustefnunnar. Fór, meðal annars, um skeið fyrirlestrarferðir víða um land sem erindreki Sambands íslenzkra samvinnufélaga. Sat í heilan aldarfjórðung í stjórn Kaupfélags Þingeyinga og var formaður þess árum saman; í stjórn Sambands íslenzkra samvinnufélaga var hann í 15 ár og varaformaður þess í 8 ár.

Kári Tryggvason skáld hitti því ágætlega í mark, er honum fórust þannig orð í einkar hlýju og vel ortu minningarljóði sínu um Sigurð Jónsson:

*Hollar stefnur hylltir þú og dáðir.*
*Hug þinn lífið vígði annastraum.*
*Samvinnunnar sigurmerki þráðir,*
*sást þar rætast hugum kæran draum.*

Sjálfur hefir Sigurður hyllt samvinnustefnuna í hreimmiklum „Samvinnusöng“ sínum, er hefst með þessu erindi:

*Á heiðum brautum með himinskautum vor fáni fer.*
*Hans litagreining alls litareining um leið þó er.*
*Af öllum áttum og þjóða þáttum*
*í þétta fylkingu skipar sér*
*hinn verkahraði, hinn vinnuglaði,*
*— einn voldugur fagnandi bræðra her!*
*Það friðartákn, sem var fest í skýjum,*
*hann fram á jörðu til sigurs ber.*

Skal nú horfið að skáldskap Sigurðar, enda varð hann fyrir hann þjóðkunnastur.

III.

Því var eðlilega þannig farið um Sigurð frá Arnarvatni, eins og önnur íslenzk alþýðuskáld beggja megin hafsins, að skáldskapur hans var aðeins hjáverk við skyldustörfin, ígrip við aðra vinnu eða í hvíldartímum. Eins og fram kemur í hinu látlausa og einlæga, og þá um leið hugþekka kvæði hans „Tíminn líður“, harmaði hann það einnig, hversu þröngur honum var sniðinn skórinn um ljóðagerðina og hve mörg kvæðaefnin lágu lítt unnin eða óunnin með öllu:

*Ennþá bíður, bíður ósmíðað efni,*
*sem jeg hef víða viðað að,*
*vildi sníða og prýða það.*

*Hefir lengi, lengi gengið svona:*
*Hreyft við strengjum endur og eins,*
*aldrei fengið ró til neins.*

Þegar aðstæður hans eru í minni bornar, er það þó hreint ekki lítið, sem liggur eftir hann af kvæðum. Um aldamótin síðustu tók hann að birta við og við kvæði í tímaritum og blöðum, og hélt því áfram jafnan síðan. En tvær kvæðabækur komu út eftir hann: *Upp til fjalla* (1937) og *Blessuð sértu sveitin mín* (1945). Auk þess birtust nokkrar ritgerðir eftir hann í blöðum og bókum.

Mývatnssveit er, eins og alkunnugt er, víðfræg fyrir fjölbreytta og tilkomumikla náttúrufegurð, og þetta æskuumhverfi hans setti varanlegan svip á skáldskap Sigurðar Jónssonar. Átthagaástin er dýpsti og sterkasti strengurinn í kvæðum hans frá hinu fyrsta til hins síðasta. Og hvergi klæðist sú tilfinning hreinni eða háleitari búningi, hvergi nær skáldskapur hans hærra, heldur en í hinum ástsæla lofsöng hans, „Blessuð sértu, sveitin mín“, er hann orti 21 árs að aldri; það kvæði gerði hann þjóðkunnan og mun geyma nafn hans í íslenzkum bókmenntum um ókomna tíð. Þó að kvæði þetta beri óneitanlega glögg merki áhrifa frá hinu vinsæla ljóði Jónasar Hallgrímssonar, „Fífilbrekka, gróin grund“, túlkar það á svo einlægan og yndislegan hátt átthagaástina, í fegurstu mynd sinni, að fólk í öllum landshlutum hefir tileinkað sér það. Réttilega hefir það þá einnig verið kallað „Þjóðsöngur íslenzkra sveita“, og er sungið flestum lögum oftar á opinberum samkomum, einkum þjóðhátíðum og öðrum þjóðræknislegum mótum. Er kvæðið Íslendingum vestan hafs, hinnar eldri kynslóðar, vafalaust í svo fersku minni, að óþarft mun að tilgreina neitt úr því á þessum stað. Hins vegar þykir mér fara vel á því

að taka upp eftirfarandi frásögn um sveitalofsöng Sigurðar frá Arnarvatni úr fyrrnefndri minningargrein Jónasar Þorbergssonar um skáldið:

„Sjálfur á ég í sambandi við kvæði þetta minningu um Sigurð á Arnarvatni sem verður mér ávalt hugstæð. Þegar heiðursgestur Ungmennafélags Íslands, Stephan G. Stephansson skáld, sumarið 1917 kom á yfirreið sinni austan um land, fórum við fjórir Mývetningar til móts við hann að Jökulsá á Fjöllum og tókum við honum úr ferjunni. Voru þar í för Sigurður á Arnarvatni, Jón Gauti Pétursson á Gautlöndum, Þórólfur Sigurðsson í Baldursheimi og ég, þá til heimilis að Arnarvatni. Höfðum við mikinn kost góðhesta og riðum greitt vestur fjöllin til Reykjahlíðar. En er við nálguðumst Námaskarð sáum við marga hesta með reiðtigjum við Hlíðarsel og þóttumst vita, að þar væri mannaför nokkur. Og í sama mund sáum við annan flokk mikinn ríða niður úr skarðinu. Skáldinu varð starsýnt á flokka þessa og þóttist ekki vita hverju gegndi; kvað sig annað tveggja vera að dreyma, ellegar væri hann horfinn aftur í fornöld. Við tókum það ráð að víkja af leið niður með fjallinu til Reykjahlíðarnáma og sýndum gesti okkar þau náttúruundur. Gafst þá mótreiðarmönnum tóm, til þess að sameina flokkana og víkja til baka upp á skarðið. Og þegar við ferðafélagar komum þangað, var þar fyrir flokkur Mývetninga og skipti mörgum tugum. Varð hinn ástsæli gestur Íslands bæði hrærður og hrifinn af slíkum móttökum um hábjargræðistímann í íslenzkri sveit. Varð hrifning stundarinnar svo djúptæk, að mönnum varð orðfall. Þá var það, að söngstjóri Mývetninga fylkti liðinu í skyndi og allir sungu þennan frábæra lofsöng sveitanna. Hin óræða kyrrð öræfanna var rofin af klökkvum tónum, en við blasti listaverk heimssmiðsins mikla, Mývatnssveit. Gesturinn mælti nokkur þakkarorð til allra, er þarna voru saman komnir, en hvarf síðan til Sigurðar á Arnarvatni og faðmaði hann fyrir „kvæðið fagra", eins og hann komst að orði." — —

Og „kvæðið fagra", eins og Stephan G. Stephansson kallaði það ýkjulaust, hefir, svo sem þegar er gefið í skyn, tryggt höfundinum öruggan sess í íslenzkum bókmenntum, en jafnframt um leið gert það að verkum, að önnur góðkvæði hans hafa horfið í skugga þess.

Hann unni íslenzkri náttúru hugástum, eins og það kvæði hans vottar eftirminnilega, og sum náttúrukvæði hans eru mjög svipmikil, t. d. „Herðubreið", er byrjar þannig:

*Upp af hraungeims hrikabreiðum*
*hamrafjallið tigna rís,*
*glæstan ber á glóðaleiðum*
*gullinhadd við rætur skýs.*
*Þúsund alda þjalir surfu*
*þvitann harða ár og dag;*
*aldir fæddust, aldir hurfu,*
*enn ert þú með sama brag.*

Vegna breytilegs starfs hans, sem þegar hefir verið lýst, hafði Sigurður ferðast mikið og kynnst við það landi og þjóð meira en venjulegt er um íslenzka bændur. Ýms ferðakvæði hans eru einnig bæði vel ort og myndauðug að sama skapi, svo

sem „Bréf til Guðrúnar J. Erlings“, og þá eigi síður „Steig ég á klæði“, um flugferð, en í því kvæði eru þessi hreimmiklu erindi:

*Sólgullna hökla*
*sá of reginjökla*
*heiðbjart hvelfast lín.*
*— Það var heilög sýn.*
*Hrukkur, innföll, ör,*
*árþúsunda för*
*sorfin í svipmót lands*
*skinu sjónum manns.*

——0——

*Hátt ofar öllum*
*öræfa reginfjöllum,*
*vafinn vafurloga*
*und víðum hvolfboga,*
*gnæfir salur sá,*
*sem ei líta á.*
*— Vatnafrerans feikn.*
*Frosta sigurteikn.*

En í slíkum kvæðum hans, auðugum að fögrum málmyndum, renna átthagaástin og ættjarðarástin í víðtækari merkingu ósjaldan í einn farveg, samhliða djúpstæðri ást hans á íslenzkum menningararfi, sögu og bókmenntum þjóðar sinnar.

Og eigi er það að kynja, þó að manni, er stóð svo föstum fótum í íslenzkum þjóðernis- og menningarjarðvegi, rynni blóðið til skyldunnar, er hann hugsaði til frændanna vestan hafsins og hugleiddi þjóðræknisbaráttu þeirra. Þess ber þá einnig að minnast með þakklæti, að Sigurður frá Arnarvatni orti mjög hlý kvæði til Íslendinga vestur hér, og má þar sérstaklega nefna „Til Vestur-Íslendinga“ (Á fullveldisdegi Íslands 1939), er lýsir vel ræktarhug skáldsins í vorn garð, Vestmanna. Svipmest þeirra kvæða hans er samt „Kveðja til Guttorms J. Guttormssonar skálds“, er á sínum tíma var birt í *Almanaki Ólafs S. Thorgeirssonar,* og er þetta upphafserindið:

*Vestur fór um ver*
*einn vaskur her*
*í gulls- og gæfuleit*
*— Það var garpasveit.*
*Lagði á lagarslóð*
*með léttan sjóð,*
*en gildan ættararf*
*eftir aldastarf.*

Sigurði urðu einnig, eins og öðrum alþýðuskáldum, nærtæk yrkisefni úr daglega lífinu, en af þess konar kvæðum hans er „Húsmóðirin“ sérstaklega aðlaðandi; þar er lýst, af miklum trúleik og með innilegri tilfinningahlýju, daglegum störfum og jafnframt hinu æðra hlutverki fórnfúsrar konu og móður. Kvæði þetta er efnismikið og samfellt að sama skapi, án efa eitt af allra beztu kvæðum skáldsins; þessi eru tvö fyrstu erindin:

*Við daglega umhyggju alls,*
*fyrir óskir og löngun og þörf*
*að beita sér eins og bezt er unnt*
*og búa undir framtíðarstörf,*
*breiða ástúðar yl og ljós*
*yfir allt sitt starfaskeið, —*
*slík er húsmóður önn. Hún er allra þjónn*
*og alvöld drottning um leið.*

*Þegar mey gefur manni hönd*
*og máttur og ást eru tengd,*
*þegar elskandi hjörtu binda sín bönd*
*í bráð og um ævilengd,*
*þá er heimilisríkið reist.*
*Hún er rós, hún er ljósgjafinn hans*

*og vígir og nærir hinn eilífa eld*
*á altari hjónabands.*

Sigurður söng ýmsa merka samtíðarmenn sína og sveitunga úr hlaði með veigamiklum og verðugum erfiljóðum, svo sem rithöfundinn Þorgils gjallanda, Pétur Gauta og Benedikt á Auðnum, að nokkrir séu taldir. Hann orti einnig mörg önnur tækifæriskvæði, misjöfn að gæðum, eins og verða vill löngum um slíkan kveðskap. Prýðisvel ort eru kvæðin „Skautaljóð“ og „Glímusöngur“, eggjandi til dáða, og bera jafnframt vitni manndómsanda skáldsins og heilbrigðri bjartsýni.

Sigurður var maður mjög fróðleikshneigður og gerði sér mikið far um það, alla sína ævi, að auka sér menntun og þroska með lestri góðra bóka, erlendra og innlendra. Meðal annars kynnti hann sér allmikið enskar bókmenntir, og sneri á íslenzku ýmsum enskum kvæðum, og eru sumar þær þýðingar prýðilegar, ekki sízt „Við dánarbeð“ eftir Thomas Hood.

Annars stóð Sigurður Jónsson um annað fram djúpum rótum í íslenzkri bókmenntaarfleifð; skyldleiki hans við ýms eldri íslenzk þjóðskáld, sem hann unni og dáði, er auðfundinn, og áhrifa frá þeim gætir einnig í kvæðum hans. En réttast er honum þó lýst í þessum orðum Helga Hjörvars rithöfundar (*Morgunblaðið*, 19. desember 1937):

„Sigurður er kynborinn sonur hinnar „þingeysku menningar“, þessa stórmerkilega tímabils og menningarskeiðs í íslenzkri sögu, sem er enn of nærri okkur til þess að verða skilið til fulls, eða réttilega dæmt „Blessuð sértu, sveitin mín“ er kvistur á þessum meiði, eins og „Ekkjan við ána“, eftir Guðmund Friðjónsson og „Heimþrá“ Þorgils gjallanda, svo að ekki sé fleira rakið. Ljóð Sigurðar á Arnarvatni eru þó fyrst og fremst ljóð bónda, og ekki einasta það, heldur einnig sérstaklega ljóð hins þingeyska bónda, hins gáfaða hugsandi manns, sem yrkir í stíl sinnar sérstöku menningar, óhjákvæmilega nokkuð háður einangrun og striti bóndans.“ — —

Fer svo bezt á því að ljúka þessari minningargrein um hið vinsæla skáld frá Arnarvatni með upphafs- og lokaerindunum úr „Útfararsöng“ hans, og ber sú fagra og lotningarfulla kveðja hans til ættjarðarinnar og lífsins sjálfs jafnhliða órækan vott djúpri og einlægri trúarkennd hans, enda hefir þetta angurblíða kvæði skáldsins verið tekið upp í nýjustu útgáfu Sálmabókarinnar íslenzku:

*Yndislega ættarjörð,*
*ástarkveðju heyr þú mína,*
*þakkarklökkva kveðjugjörð,*
*kveð ég líf þitt, móðir jörð.*
*Móðir bæði mild og hörð,*
*mig þú tak í arma þína.*
*Yndislega ættarjörð,*
*ástarkveðju heyr þú mína.*

——0——

*Faðir lífsins, faðir minn,*
*fel ég þér minn anda' í hendur.*
*Foldin geymi fjötur sinn,*
*Faðir lífsins, Drottinn minn,*
*hjálpi mér í heimin þinn*
*heilagur máttur, veikum sendur.*
*Faðir lífsins, faðir minn,*
*fel ég þér minn anda' í hendur.*

SIGURÐUR JÓNSSON FRÁ ARNARVATNI:

# Á afmælisdaginn

„Enn er fríður fjörðurinn
fegraður ljóma sólar.“
(*Jón Hinriksson, Helluvaði*)

*Hve dýrðleg sjón að sjá af fjallsins brún*
*und sólu opnast fjarðardalinn bjarta.*
*Lít silfurborða á grænum skrúða skarta,*
*er skín á elfu, flæðilönd og tún.*
*Og eggjar fjalla gyllir geislarún*
*frá græði bláum inn mót landsins hjarta.*

*En flughratt ber mig fram um lagðan veg*
*í faðm þinn sælubyggð í hlíðarskjólum*
*þar dáðrík öldin öllum byggðum bólum*
*nú breytir hratt og gjörir unaðsleg.*
*— Nær sjötíu árum áður fluttist ég*
*til ættarsveitar, reifabarn frá Hólum.*

*Nú kem ég aftur yndislega byggð,*
*að eyða hjá þér þessum fagra degi,*
*í frænda hóp' þótt fjölmennur sé eigi,*
*en fylgist að í minninganna tryggð,*
*Hér fram í dalnum, fjöllum yfirskyggð,*
*er fögur stórjörð. Þar skal áð á vegi.*



*Og nú er stöðvuð þar mín þeysireið.*
*Á þessum bæ og fyrir sjötíu árum*
*ég fæddur er. Nú kem ég und hvítum hærum,*
*Ó, hví var það ei fyrr um æfiskeið!*
*Ég vildi einu sinni á langri leið,*
*mig lauga hér í minninganna bárum.*

---

Þetta kvæði er talið síðasta kvæði skáldsins, og hefir ekki verið prentað áður. Er það að líkindum ort um lok ágústmánaðar 1948. Tæpum sex mánuðum síðar er hann dáinn. Sjá grein Dr. Becks hér að framan. —Ritstj.

*Sem gamal-kunnugt allt mér reyndar er,*
*sem auga mætir, því í bernsku heima*
*svo margt var rætt, sem mun ég aldrei gleyma,*
*um menn og staði; allt, sem skeði hér.*
*Sjálf bæjaröðin enn var ógleymd mér,*
*og oft mig barnið hingað var að dreyma.*

*Í hóla-skjóli á breiðri blómagrund*
*rís bær og kirkja, sá er fyrst mig hýsti;*
*þar ástrík móðir mér að hjarta þrýsti*
*í móðurgleði fyrstu lífsins stund,*
*og bað til guðs, hann gæfi mér það pund,*
*sem geymt ég fengi, vermdi af og lýsti.*

*Og yfir mörgu býr hann þessi bær*
*— einn bær, sem margar kynslóðir þó reistu,*
*er þær hver aðra hér af hólmi leystu;*
*um horfið líf hann ennþá vitnað fær.*
*Og þó að stöðugt þoki falli nær,*
*er þetta helgur arinn, sem menn treystu.*

*Við hugans sjónvarp sé ég föður minn,*
*á svip hans merki áhyggjanna þunga.*
*En frændur mínir: fólkið káta, unga,*
*það fyllir gleði og lífi bæinn sinn.*
*Þó þrengi skuggar óboðnir sér inn*
*og óhæg gjörist Braga hin létta tunga.*

*En æskan sú var glens og gamankær*
*og gleðisækin, rík var frelsisþráin.*
*Þá kom svo oft, þó kynni væru' ei náin,*
*að kvað hann við af gleði, hinn stóri bær —*
*sem bærist hingað ferskur fjallablær,*
*þá feyktist vanans molla út í bláinn.*

*Mér finnst, er hljóður geng ég hér um garð,*
*svo gott að reika um þessar fornu slóðir,*
*og minnast ykkar, faðir minn og móðir,*
*og mér svo ljós hér nálægð ykkar varð.*
*Þótt búið ykkar bæri rýran arð,*
*hér bættust ykkur margir vinir góðir.*

☆

*Það varð margt héraðsfleygt, sem faðir minn*
*hér forðum kvað. Af samtíð var hann dáður.*
*Og þó hans vegur væri þyrnum stráður,*
*hann vakti gleði, hvar sem steig hann inn.*
*Við fjölbreytt kynni, ríka reynslu um sinn,*
*hér raddsvið óx, varð hærra og dýpra en áður.*

*Og enn er bóndans hug í Hólum skipt,*
*svo hagnýt störf og list hann rækir saman.*
*Því Íslands-bóndinn enn sér gjörir taman*
*þann andans leik, sem honum mest fær lyft,*
*og leyfir sér að fylgja ei fyrirskrift,*
*sem fær ei skilið eðlisþátt svo raman.*

*Ég vissi fyrr og hef nú heyrt í dag,*
*að hulið geymist margt hjá sveitalýði.*
*Hann faðir minn hér fékkst við ljóðasmíði,*
*nú fæst hann bóndinn hér við tón og lag.*
*Hann ætti skilið lof og hærri hag,*
*því hann er stéttar sinnar göfug prýði.*

*Svo göngum við í guðshús hér í dag,*
*og gamla kirkjan enn á hólnum bíður.*
*Þar guði helgað hefur dalsins lýður*
*um hundruð ára gleði og sorgarhag,*
*og flutt sín bænarorð og lofsöngslag*
*þeim lávarð, sem til veizlu öllum býður.*

*Í helgiþögn og fanginn hennar frið*
*ég fell í leiðslu, hugur hverfur manni.*
*Ó, heilög stund! Nú hlýði ég með sanni*
*á horfna tímans djúpa aldanið.*
*Við orgeltóna hlýja hrekk ég við.*
*Nú hljómar söngur fylgdarliðs í ranni.*

*Svo eigum við hér yndislega stund*
*og ára minna horfinn er nú þunginn.*
*Hér er mér aftur skírnarsálmur sunginn*
*og söng við helgum minninganna fund.*
*Ég héðan sný svo himinglaðri lund*
*og hrifum djúpum andi minn er þrunginn.*

*Mitt fólk hér fann ei gull í gæfuleit,*
*en gagnauðug af reynslu sannri, dýrri,*
*mín foreldri úr fjarðarbyggð svo hlýrri*
*sig fluttu aftur heim í Mývatnssveit.*
*Oss frændur þrjá þau fluttu úr þessum reit*
*til fjalla austur, — sprota af kynslóð nýrri.*



*Ég fagna í dag, að hingað haldið var,*
*að Hóla fengum litið öðru sinni,*
*og rifjað upp hin gömlu, góðu kynni.*
*Ó, guði sé lof, að ég kom aftur þar!*
*Nú býr vor þjóð við umbreytt aldarfar;*
*sitt ættarstríð hún skal þó geyma í minni.*



**ÞORSTEINN Þ. ÞORSTEINSSON:**

# Launin

*Hann lá þar í rúminu nýtízku nýja,*
*er numinn var andi hans langt út í geim*
*og þúsundir hundraða æpandi anda*
*í andvöku-draumunum sóttu 'hann heim*
*og spriklandi limirnir lausir hann börðu,*
*sem litla vörn sýndi mót nágestum þeim.*

*Þeir tættu' hann í agnir með atómsins magni*
*og andi hans kvalinn í sérhverri bjó.*
*Hann vissi að bomban, sem borgirnar eyddi*
*í blóðkorni hverju í ögnunum sló —*
*sú bomba', er hann hafði af hugviti sínu*
*með herkænsku smíðað og ískaldri ró.*

*Hann vaknaði' á gólfinu vitstola af æði*
*og vissi ekki framar að draumur það var,*
*er uppreisnar samvizkan særð honum færði*
*og sakirnar ótal á gerðir hans bar,*
*því borgirnar tvær hafði' hann baðað í eitri*
*og bannfært alt líf, sem að vitkaðist þar.*

DR. STEFÁN EINARSSON:

# Útverðir norræns anda og norrænna fræða í Austurvegi

Eitt af því sem hætt er við að greini Vestur-Íslendinga frá löndum þeirra austan hafs er það, að flestir þeirra munu ekki skilja neitt Norðurlandamál, annað en íslenzku. Að vísu er þetta munur sem virðist eiga fyrir sér að fara minnkandi, því að það færist nú mjög í vöxt heima á Íslandi, að menn trassi að læra dönsku, norsku eða sænsku, en láti sér nægja enskuna eina. Þegar ég var að alast upp heima á Íslandi, var það fátítt að Danir, þótt þeir dveldu langdvölum á landinu, lærðu nokkuð í málinu, og var það meðal annars af því, að hvar sem þeir komu gátu þeir notað sína eigin tungu og komust aldrei að með það að tala mál landsins. En þegar ég var heima í fyrra (sumarið 1951), hlustaði ég á danskan fræðimann, Martin Larsen, halda fyrirlestra í útvarpið, og þótt framburður hans bæri enn danskan keim, þá talaði hann að öðru leyti lýtalausa og góða íslenzku. Mér þótti þetta undarlegt fyrirbrigði og spurði manninn, hvernig á því stæði, en hann kvað ástæðuna vera þá meðal annars, að nú væri það miklu fátíðara en áður að fólk skildi og talaði dönsku. En ég get í þessu sambandi getið þess, að eini útlendingurinn, sem ég hitti heima og heyrði tala íslenzku svo að ekki heyrðist neitt á mæli hans var Peter Hallberg, ungur sænskur háskólakennari frá Gautaborg. Tómas Jóhannsson frá Lundi talaði hana líka, en ekki eins vel enn sem komið var.

Raunar ætlaði ég hvorki að tala sérstaklega um útlendinga, sem íslenzku tala, né Íslendinga báðum megin hafs, sem skilja ekki neitt Norðurlandamál, þótt þess væri kannske full þörf. Við Íslendingar erum Norðmenn að uppruna og höfum um allan okkar aldur haft menningarsamband við Norðurlönd. Þegar við slítum þessu sambandi með því að hætta að lesa önnur Norðurlandamál og bókmenntir, þá erum við að nokkru leyti undir sömu örlög seldir og köngulóin í æfintýri Jóhannesar Jörgensens, sem klippti á þráð, er hún hafði sigið á ofan úr tré, en felldi um leið niður allan vefinn sinn af því að hún hafði steingleymt til hvers þessi þráður var. Það er því trúa mín, að íslenzki prófessorinn í Winnipeg gæti gert margt óþarfara — ef hann hefði tíma til — en að leiðbeina mönnum um nám einhvers Norðurlandamáls eða um lestur bókmennta þess.

En svo að ég komist einhverntíma að efninu, þá var það ætlun mín að

segja mönnum eitthvað lítilsháttar af kynnum mínum við sænsk-finnlenzka fræðimenn og andleg viðfangsefni þeirra, einkum þau sem kynnu að verða íslenzkum lesendum lærdómsrík.

Svíar þeir er í Finnlandi búa á suður og vesturströnd landsins og í skerjagarðinum og á Álandseyjum — rúmlega helmingi fleiri en Íslendingar — hafa þá sérstöðu meðal Norðurlandabúa, að ekki allfáir þeirra og a. m. k. flestir fræðimenn þeirra skilja og tala finnsku, sumir jafnvel rússnesku. Annars er sænska þeirra, hvað framburð snertir einna keimlíkust íslenzku af öllum Norðurlandamálunum. Fram á 19. öld voru þeir auk þess höfðingjar Finnlands og þegar Finnum sjálfum óx þjóðrækni og fiskur um hrygg litu þeir á þessa Svía nokkuð svipuðum augum og við Dani á sama tíma. Varð sá leikur fljótt nokkuð ójafn, þar sem sænskir Finnlendingar voru ekki nema svo sem 12—13% af allri þjóðinni, og þótt lög væru sett til að tryggja jafnrétti þjóðanna og tungnanna þá var það eigi allfámennur flokkur Finna, sem vildi gleypa Svía með húð og hári og hafa einn sið og eina tungu í einu landi. Voru sænskir Finnlendingar mjög í varnarstöðu þegar ég var þar veturinn 1924—25, en þegar ég heimsótti þá í fyrrahaust (1951), var mér sagt að eftir síðasta stríðið við Rússa hefði öllum slíkum ýfingum verið hætt. Samt sem áður er aðstaða Svía í Finnlandi mjög lík þeirri, sem Íslendingar hafa í Vesturheimi. Þeir verða að fylkja sér þétt um þjóðerni sitt til þess að halda því í horfi.

Þegar maður siglir undir Finnlandsströnd, þá virðist landið vera einn samfelldur klettagarður ekki hár, en kafinn barrskógi á svipaðan hátt og sumstaðar mun mega sjá við strendur Nýja-Skotlands og Nýfundnalands. En alólíkt er þetta íslenzkri landsýn með berum háum tindafjöllum eða flötum jöklum. Jafnvel eftir að upp lúkast sund og siglt er inn í skerjagarðinn er hver eyjan annari svipuð að hæð og lit: rauðar granítklappir og dökkgrænn barrskógur. Öðruvísi er að sjá landið úr lofti, þá er hver eyjan annari ólík og mergðin svo mikil að mann sundlar. Sömuleiðis sést að hér er eiginlega engin munur á landi og legi, því að landið er jafnfullt af vötnum, tjörnum og pollum og hafið af eyjum, hólmum og skerjum, og þótt Finnland hafi verið kallað þúsund vatna landið, þá eru vötn þess í raun og veru mörgum sinnum fleiri. Get ég tæplega hugsað mér fegurri sjón en að horfa á þetta víravirki láðs og lagar, granítklappa og barrskóga, vatna og fljóta úr loftinu.

Hending olli því að ég fór til Finnlands haustið 1924. Svíi í Uppsölum, Rolf Nordenstreng að nafni, mikill Íslendingavinur, hafði skrifað mér á ágætri íslenzku og ráðið mér að fara til prófessors Hugo Pippings í Helsingfors til að læra hljóðfræði. Ekki varð þó af því námi hjá honum, heldur stundaði ég það á hljóðfræðirannsóknarstofu háskólans í Helsingfors hjá finnskum fræðimanni, prófessor Franz Aima, sem var svo elskulegur að lesa mér fyrir á sænsku, þótt ég væri þá að kalla eini nemandi hans. Þar vann þó með mér ungur finnlenzkur hljóðfræðingur, Erik Lagus að nafni, en bæði hann

og kennari okkar eru nú löngu dánir, eins og fleiri vinir mínir austur þar. Hjá Pipping hlustaði ég aftur á fyrirlestra hans um Eddukvæði, en hræddur er ég um að Íslendingnum í mér hafi ekki dámað þegar hann vildi gera *Völuspá* að sænsku kvæði, enda munu margar djarfar tilgátur hans hafa þótt orka tvímælis með fræðimönnum. Samt er Pipping einhver hinn skarpasti og snjallasti fræðimaður sem ég hef þekkt, enda varð ekki um það deilt, að hann hafði sett *Völuspá* (*ask Yggdrasils*) í samband við veraldartrjá-tignun eigi aðeins í Uppsölum, heldur líka í Lapplandi og austur um alla Asíu með frændþjóðum Finna þar. En það var raunar finnskur trúbragðafræðingur, Uno Holmberg (er síðar kallaði sig Harva) sem þá nýlega hafði skrifað bók um veraldartréð (1922) og fór Pipping eftir bendingum hans. Hér voru því nýjar brautir ruddar, athyglisverðar bæði norrænum og finnskum fræðimönnum, brautir sem enginn gat rutt nema sá sem útsýn hafði, bæði til austurs og vesturs af því hann kunni bæði málin. Einn af hinum fyrstu fræðimönnum til að njóta góðs af þessu útsýni til beggja handa, þótt eigi væri hann lærisveinn Pippings, var Svíinn Dag Strömbäck, er skrifaði um seið á Íslandi og komst að þeirri niðurstöðu að Norðmenn og Íslendingar hefðu lært þá íþrótt af lappneskum og finnskum galdramönnum, og dró þá ályktun af þeirri staðreynd að þessi göfuga og kröftuga íþrótt reyndist vera útbreidd austur um alla norðanverða Síberíu, alla leið austur til Eskimóa á norðurströnd Canada, og líklega til Grænlands. Ég kynntist Degi fyrst á Íslandi sumarið 1926 og voru þá tveir seiðskrattar meðal íslenzkra stúdenta, hann og Sigurður Skúlason, er síðar afræktist þessi fræði en gerðist ritstjóri *Samtíðarinnar* og fyrirmyndarborgari. En svo að ég snúi nú aftur austur til Finnlands, þá kynntist ég þar veturinn sem ég var þar við nám, tveim lærisveinum Pippings, Finnlendingnum, og norrænufræðingnum Arnold Nordling og Svíanum og finnskúgriska fræðimanninum Björn Collinder er síðar varð prófessor í þeim fræðum við Uppsala-háskóla og hefur nýlega þýtt *Kalevala,* þjóðkvæði þeirra Finna, á sænsku svo að hreinasta snilld er að. En ég bjó með Arnold Nordling í Helsingfors og las með honum íslenzku, lærði hann málið svo vel, að hann mun hafa verið bezt talandi á íslenzku sænskra fræðimanna á sinni tíð, a. m. k. í Finnlandi, enda kom hann oft til Íslands meðal annars sumrin 1926 og 1930 — til Alþingishátíðarinnar. — Hann varð næsti eftirmaður Pippings í norrænum fræðum í Helsingfors. Pipping andaðist á stríðsárunum síðustu í hárri elli og saddur lífdaga, en Nordling dó fyrir aldur fram úr krabbameini frá konu og börnum nokkrum árum eftir stríðið. Hann ritaði ýmislegt um íslenzk fræði, var manna athugulastur, og þegar kennslubók mín í íslenzku kom út benti hann mér á atriði í notkun greinis með lýsingarorðum, sem enginn hafði áður veitt eftirtekt (jörðin græn).

Eftir að þeir rómantísku leiðtogarnir í Þýzkalandi, Herder og Grimm, höfðu vakið menn til skiln-

ings á gildi alþýðlegra þjóðkvæða og þjóðsagna, hófst söfnun þeirra á Norðurlöndum. Á Íslandi safnaði Jón Árnason bæði þjóðsögum og þjóðkvæðum, þulum og vikivökum, þótt ljóðasafnið yrði að bíða Ólafs Davíðssonar áður það kæmist á prent. Í Danmörku voru þjóðkvæðin kannske öllu merkilegri en þjóðsögurnar, enda hóf Svend Grundtvig útgáfu þeirra snemma og hélt henni áfram á merkilegan hátt. Svöruðu hinar dönsku *folkeviser* hans til ensku *balladanna* en samskonar kvæði voru líka algeng í Svíþjóð, Noregi og jafnvel ekki óþekkt, þótt sjaldgæfari væri, á Íslandi (þar kölluð íslenzk fornkvæði). Allt voru þetta upprunalega dansvísur. En meðan þetta gerðist á Norðurlöndum lét Elías Lönnrot, finnskur fræðimaður, greipar sópa um Finnland allt, ekki sízt Kirjálabotna, og safnaði þaðan finnsku *Kalevala*-kvæðunum er fjalla um fornhetjur þeirra Finna aftan úr heiðni, en Finnar voru tæplega fullkristnaðir fyrr en upp úr siðaskiftum. En síðan þetta var hafa bæði finnskir og finnlenzkir fræðimenn keppzt hvorir við aðra á sviðum mannfræði (ethnology) og þjóðfræði (*folklore*) og hafa Finnar haft svo góðar forsagnir á um rannsóknar aðferðir á þessum sviðum, einkum þjóðfræði að það hefur orðið öllum til fyrirmyndar. Um aldamótin var Edward Westermark mjög kunnur mannfræðingur, er skrifaði á ensku um hjónabandssiði villiþjóða. Hann var tengdafaðir Hugo Pippings. Ég kynntist tveim lærisveinum hans, Gunnari Landtmann, er lýsti frumbyggjum Nýju-Guineu og skrifaði upp ósiði þeirra og sögur, og K. Rob. V. Wikman, er skrifað hefur, auk margs annars, stóra bók um það sem kalla mætti „inngangsfræði hjónabandsins" á Norðurlöndum og víðar um Evrópu (og jafnvel Ameríku þar sem siðurinn kallast *bundling*). En vaninn var sá að sveinar byggðarlagsins eða þorpsins tóku hús á heimasætunum og lágu hjá þeim næturlangt eða alloft margar nætur með tukt og æru, áður en hjónaefnin tóku saman fyrir fullt og allt. Björnstjerne Björnson segir eina sögu af þessu á landsmáli og heitir hún „Ei farlig friing" eða „Hættuleg bónorðsför." Það undarlega er nú, að þótt þessi góði siður væri algengur um Norðurlönd virðast Íslendingar með öllu hafa farið varhluta af honum. Það eina sem hugsazt gæti að ætti við þetta er vísan:

Hann: *Margt býr í þokunni,*
*þokaðu úr lokunni*
*lindin mín ljúf og trú.*

Hún: *Fólkið mín saknar*
*og faðir minn vaknar,*
*hann vakir svo vel sem þú.*

En mjög er vafasamt hvort hér sé átt við sama sið, enda væri fróðlegt að heyra hvort nokkrir Vestur-Íslendingar könnuðust við hann af reynd eða afspurn.

Landtmann var prófessor í Helsingfors, en er nú löngu dáinn; Wikmann er enn prófessor í þessum fræðum í Åbo Akademi.

Úr því hér er minnst á Åbo Akademi er rétt að fara um það nokkrum orðum. Meðan Svíar voru drottnarar Finnlands var Åbo höfuð-

staður þess. Eins og nafnið bendir til liggur staðurinn við á (Árbær) og myndaðist þorpið þar við ána er skip gátu lengst flotið upp eftir henni, svo höfn var þar bæði trygg og góð og aðsókn mikil af landi eftir vörum þeim, er skipin gátu flutt bæði úr öðrum héruðum Finnlands og utanlands frá. Nú stendur þar mikil og fögur dómkirkja, var smíði hennar hafin 1229 — um það bil sem Snorri var að lúka við *Heimskringlu* sína. — Fljótt var farið að halda þar skóla, en 1630 var honum breytt í lúterskan Latínuskóla. Loks var háskóli stofnaður þar: Åbo Akademi hið eldra, og naut sá háskóli vaxandi virðingar þar til hann brann til kaldra kola ásamt miklum hluta bæjarins 1827. Var það einhver sá versti bruni sem sögur fara af á Norðurlöndum, en þó tæplega eins skeinuhættur norrænum fræðum og anda eins og eldurinn í Kaupinhafn tæpum hundrað árum áður, þegar Árnasafn brann. En þá (1827) hafði Finnland síðan 1808 verið undir veldi Rússa; þeir tóku höfuðstaðarrétt af Åbo 1812, en efldu Helsingfors til höfuðstaðar af því að sá staður var hálfu nær Sánkti Pétursborg. Og þegar Åbo brann var háskólinn líka fluttur til Helsingfors. Hér voru Svíar fyrst forgöngumenn í stjórnmálum og lærdómi, en eftir því sem bærinn óx og Finnum fjölgaði í honum varð hlutur þeirra Svía minni við þenna háskóla ríkisins, þar sem allt átti að fara fram á tveim tungum landsins. Það mun því þegar upp úr aldamótum hafa verið vakið máls á því, að endurreisa sænskan háskóla í Åbo og var þetta gert á stríðsárunum 1919 fyrir samtök og fórnarvilja þeirra Svía í Finnlandi, er síðan hafa haldið skólanum gangandi og vaxandi fram á þenna dag, en prívatháskólar eru eins sjaldgæfir fuglar austan hafs eins og þeir eru algengir vestan hafsins. Skólinn var átta árum yngri en Háskóli Íslands, en þó óx hann miklu fljótar, enda stóðu að honum meir en helmingi fleiri menn en Íslendingar, þar sem voru hinir sænsku Finnlendingar (yfir 300,000). Akademíið byrjaði með þrjár deildir: Heimspekisdeild (humaniora), stærfræði-náttúrufræðideild, og þjóðhagfræðideild. Ári síðar var efnafræði- og verkfræðideild aukið við, 1924 guðfræðideild og 1927 var verzlunardeild tengd lauslega við skólann. Háskólabókasafnið er nú annað í röð safna í Finnlandi með 400,000 bindi. Annars gefur það að skilja að með verðbólgu þessa síðasta og versta stríðs og eftirstríðsáranna, með alla hluti a. m. k. tíu sinnum dýrari en áður, hafi hvorki háskólinn né bókasafn hans átt góða daga.

Frá fyrstu tíð var prófessoratið í norrænum fræðum í Åbo Akademi rækt af Rolf Pipping, syni og lærisveini gamla Hugo Pippings, og hefur hann maklega haldið uppi lærdómssóma ættarinnar, og er hann ekki einn um það, því hann á tvo bræður, Nils, prófessor í stærðfræði í Åbo, og Hugo E., prófessor í hagfræði í Helsingfors. En prófessor í norrænum fræðum í Helsingfors heitir Olav T. O. Ahlbäck, lærisveinn Nordlings og eftirmaður hans, ungur maður og efnilegur.

Þeir Pippingsfeðgar voru miklir málfræðingar. Hugo Pipping hafði

byrjað á hljóðfræðirannsóknum, skrifað mikið um sögu norrænu málanna, hann hafði líka ritað mikið um rúnir, sem gríðarlega mikið er af í Svíþjóð og Eystrasaltslöndunum. Auk þess hafði hann gefið út forntexta eins og *Gotlandssögu,* skrifað um bragfræði og margt fleira fyrir utan fyrirlestrana um Eddu, sem áður nefndi ég. Rolf Pipping hefur ekki verið útaf eins fjölhæfur eins og faðir hans, en ekki síður nákvæmur og skarpskyggn. Hann hefur meðal annars gefið út *Eiríkskroníku,* sem er ein af hinum fáu miðaldaritum Svía í bundnu máli, á fyrirmyndarhátt og með gríðarmiklum skýringum.

Eins og Norðurlönd yfirleitt utan Íslands er sænska Finnland fullt af mállýzkum. Til dæmis get ég sagt frá því, að þegar ég hafði verið um mánaðartíma í Helsingfors og hafði aldrei fyrr borið við að tala sænsku, heldur aðeins dönsku, fór Nordling með mig upp í sveit og spurði kallana, hvaðan þeir héldu ég væri. Þeir voru ekki vissir, en gizkuðu á að ég kynni að vera vestan úr Pargas. Að ég væri útlendingur datt þeim ekki í hug. Eins og geta má nærri hafa fræðimenn lagt hug á að lýsa þessum mállýzkum og hafði prófessor O. F. Hultmann, samtímamaður Hugo Pippings, skrifað um þær yfirlitsrit fyrir aldamót, en síðan hafa margir ritað um einstakar mállýzkur eða einstök atriði í þeim.

Og eins og málið er ólíkt þá er líka sinn siður í sveit hverri, en um allt þetta hafa fræðimenn Finnlendinga verið hinir gjörhugulustu. Þeir hafa safnað nákvæmlega öllu sem þeir gátu um verklega menningu sveitanna til lands og skerja frá húsum og bæjum, frá skipum og bátum til einföldustu tækja bænda, skógarhöggsmanna og fiskimanna. Langar og ýtarlegar ritgerðir hafa verið skrifaðar um byggingarlag húsa, um heyvinnu- og akuryrkjuverkfæri, um smíðaverkfæri og skógarhöggs, um búninga fólksins, um línur og net, gildrur og nótir. Menn hafa leitazt við að bjarga hinu gamla úr sveitunum á byggðasöfn; eitt slíkt er Fölisön skammt frá Helsingfors, þar eru varðveittir bjálkakofar, bæir og skemmur úr ýmsum héruðum landsins og fylltir af húsgögnum þeim og munum sem til þeim heyra. Í Åbo, sem eins og áður er sagt, var gamall siglingabær, er mikið safn af gömlum skipum og hlutum sem þeim tilheyra og sjóferðum. Þá hefur ekki síður verið safnað miklu og ritað mikið um andlega menningu sveita og skerjabúa. Hér tilheyra nákvæmar lýsingar á siðum þeim og venjum er fylgja hátíðum og tyllidögum ársins eða merkis- og heiðursdögum manna, svo sem fæðingum, skírn, fermingu, brúðkaupi og dauða. Af þessum heiðursdögum eru ekki hvað sízt brullaup og erfidrykkjur merkilegar sökum viðhafnar í búningum, söng og hljóðfæraleik, mat og drykk. Hér er svo komið að þjóðsögum og þjóðkvæðum, þjóðdönsum, þjóðbúningum, leikum, þulum, barnagælum og þar með fylgir þjóðtrú og hindurvitni, víti og galdrar. Á síðari hluta 19. aldar var faðir og alnafni vinar míns Ernst Lagus forgöngumaður að því að safna þessum þjóðlega fróðleik.

En sá núlifandi maður sem mest og bezt hefur unnið að söfnun þessa

eru breytingarnar, en hvort sem þær verða til hags eða óhags segir tíminn einn og reynslan.

Árið, sem liðið er, hefir verið atburðaríkt ár að mörgu leyti, en líka að mörgu leyti ekki. Út á við í hinum víðtækara heimi hafa málin verið að miklu leyti hin sömu, sem þjóðirnar glíma við, og heima fyrir mætti segja hið sama. Heldur hefir okkur miðað fram en aftur, þó að ekki hafi altaf gengið eins og við hefðum óskað. Þeir menn eru til, sem halda að afrek félagsins geti verið svo mörg og mikil að menn gæti staðið á öndinni yfir þeim og hrósað þeim til skýjanna. En þýðingarmestu verkin eru ekki altaf unnin fyrir almenningssjónum. Eitt leiðir af öðru, og það sem þýðingarmest er, er oft aðeins í því fólgið að halda málunum við, sem unnið er að, að halda stofnuninni við, svo að þegar til kastanna kemur, þá verði stofnunin til, til að leysa það verk af hendi, sem þörf er á. En þó er ég ekki að breiða yfir neitt og vil ekki, sem í dagsljósið ætti að koma.

Á þessum undanförnu 15 mánuðum höfum vér séð á bak nokkrum ágætum félagsmönnum, sem vel og lengi hafa unnið á einn eða annan hátt í þágu félagsins. Þar tel ég með öðrum föður minn, Ólaf Pétursson, sem í mörg ár var skjalavörður félagsins; hann dó í febrúarmánuði s.l. Meðal þeirra annarra, sem dáið hafa, þó að ég hafi ekki enn fullkominn lista, má nefna: Heiðursverndara félagsins, Svein Björnsson, forseta Íslands. Eins og getið hefir verið, fer fram minningarathöfn í dag, kl. 4 e. h., í Fyrstu lútersku kirkjunni. Dr. Richard Beck flytur þar minningarræðu, en séra Valdimar J. Eylands stjórnar athöfninni. — Gengið verður af fundi stuttu fyrir fjögur og í kirkjuna.

Heiðursfélagar, sem dáið hafa eru: — Ólafur Pétursson og Arinbjörn S. Bardal.

Aðrir félagar, er látist hafa eru þessir:

Josephína Jóhannson, Winnipeg
Hjörleifur Björnsson —
Jóhanna Pétursson —
Sigfús B. Benediktsson, Langruth
Böðvar Jónsson —
Böðvar H. Jakobsson, Árborg
Jakob Vopnfjörð, Blaine
Einar Haralds, Vancouver
Mrs. Áslaug Ólafsson —
Mrs. Gróa Pálmason, Winnipeg Beach
Stefán Anderson, Gimli
Kristján Indriðason, Mountain
Mrs. Anna María Nelson, Lundar.

Fleiri geta verið, sem ég hefi ekki nefnt. En ef þeir, sem vita af öðrum, vildu láta mig vita af þeim, yrði hægt að leiðrétta það áður en ræða þessi verður birt á prenti.

Vér minnumst þessara félagsbræðra og systra með þakklæti fyrir samstarfið og góða frammistöðu í sameiginlegum málum vorum. Smá saman tínast vinir og samverkamenn úr tölunni, þeir, sem héldu þessari stofnun við. Það verður í trygð við minningu þeirra og verk, að við höldum því starfi áfram, sem þeir helguðu líf sitt og krafta.

En nú vil ég tiltaka nokkur verkefni og svæði, sem félagið og stjórn þess hefir unnið á, á hinu liðna ári. Og þar nefni ég fyrst:

**Fundir**

Fundir félagsins hafa verið eins og vanalega og nefndin komið saman til að vinna sín verk, þau, er félagið lagði henni í hendur. Þar að auki hafa nefndarmenn, í nafni félagsins, sótt ýmsa aðra fundi og fyrirtæki félaginu til styrktar og eflingar. En þó ber að taka það til greina, að stundum vegna tímaleysis og anna, var nefndarmönnum ekki létt um að sækja fundi reglulega. Alt það starf, sem unnið er af stjórnarnefndarmönnum, er í hjáverkum unnið. Og þegar margt kallar, er ómögulegt að sinna því öllu. Það er oft erfitt að velja um, og þess vegna hafa stundum fundir stjórnarinnar orðið að sitja á hakanum hjá sumum nefndarmönnum, þó að aðrir hafi hins vegar sótt fundi samvizkusamlega og vel.

**Útbreiðslustarfsemi**

Um útbreiðslutilraunir félagsins er það að segja, að unnið hefir verið að þeim af flestöllum stjórnarnefndarmönnum á einn eða annan hátt, þó að ekki hafi alt verið gert, sem gera skyldi. En ég, sem forseti félagsins, bið engrar afsökunar á því. Fundið hefir verið að ýmsu í sambandi við rekstur mála félagsins, og er gott að svo skyldi vera. Við værum illa staddir, ef alt væri orðið svo fullkomið, að ekkert fyndist, sem bæta mætti, eða, ef að áhuginn væri orðinn svo lítill, að enginn kærði sig um hvort vel eða illa færi.

En meðal útbreiðslumála, sem unnin hafa verið, mætti nefna margar samkomur og hátíðahöld meðal Íslendinga, þar sem íslenzkt mál er notað, — og ekki sízt meðal deilda félagsins. — Hægt væri að segja, að kirkjurnar vinni að útbreiðslumálum hvenær sem messað er á íslenzku — að blöðin vinni að útbreiðslumálum, þar eð þau eru gefin út á íslenzku, — að einstaklingar, þegar þeir hittast og heilsa hver öðrum á móðurmálinu, vinni að útbreiðslustarfsemi. Það er erfitt að fullyrða hvað sé og hvað sé ekki beint útbreiðslumál. Jafnvel mætti segja, að meðal yngri Íslendinga, þeirra, sem skara fram úr og vinna sér heiður, að þeir vinni að út-

breiðslumálum. Þess vegna sagði ég, að þó að afturför mætti kalla í sumu, sem unnið hefir verið að, þá hefir okkur þó yfirleitt miðað áfram, sem sé, framfarirnar hafa orðið meiri en afturfarirnar.

En meðal hins áþreifanlega má nefna samkomur félagsins og deildanna, eins og t. d. samkomu Fróns s.l. maí, 1951, og aðra samkomu Fróns á árinu, sem aldrei hafa tekizt betur en á þessu liðna ári. Ég veit ekki mikið um bókasöfn og lestrarfélög meðal deilda, en um bókasafn deildarinnar í Winnipeg má fullyrða með réttu, að æði langt er síðan að fleiri bækur hafa verið teknar út til lesturs, en á þessum s.l. vetri.

Samkoman í Playhouse Theatre, sem haldin var 30 marz fyrir ári síðan undir umsjón háskólastólsnefndarinnar, þar sem María Markan Östlund og Agnes Sigurdson komu fram, má teljast undir þessum lið.

Í Árborg heldur deildin Esjan árlega samkomu, þar sem m. a. börn koma fram og keppa í framsagnarlist og hljóta verðlaun fyrir. Á þeim tíma sem liðinn er síðan að síðasta þing var haldið, hafa tvær slíkar samkomur verið haldnar með ágætum árangri. Einn keppendanna, ungur drengur, sem ber íslenzkuna fram eins og innfæddur Íslendingur væri, og sem hlaut verðlaun í sínum flokki, kemur fram á samkomu aðalfélagsins annað kvöld og þá fáum við tækifæri til að dæma um það, sem unnið hefir verið af deildinni í Árborg.

Samkoma var haldin í Selkirk í maí í fyrra; þangað sendi ég íslenzkar myndir, sem félagið á, en gat ekki, anna vegna, sótt þá samkomu sjálfur. Lestrarfélagið á Gimli hélt samkomu 13. september s.l., og í desembermánuði s.l. var haldin samkoma á Lundar, þar sem próf. Finnbogi Guðmundsson og Dr. Áskell Löve komu fram og fluttu erindi. Hér í Winnipeg hafa verið ýmsar samkomur, eins og t. d. þegar opinberlega var tekið á móti Próf. Finnboga Guðmundssyni sem hinum fyrsta embættismanni við hinn nýstofnaða kenslu stól í íslenzkum fræðum við Manitobaháskóla, sem ég mun minnast nánar síðar.

Próf. Finnbogi Guðmundsson er þegar farinn að ferðast út um bygðir Íslendinga til þess að vinna að útbreiðslumálum félagsins. Sumir munu ef til vill hugsa að félagið hafi lítið við ferðir hans að gera. En tilfellið er, að ef félagið væri ekki til né deildir þess til að taka á móti honum er auðskilið hve miklu örðugri ferðalög hans og móttökur yrðu en raun hefir orðið á.

Í næstu forsetaskýrslum, eins og t. d. á næsta þingi, tel ég víst, að margt verði sagt um ferðir Próf. Finnboga út um bygðir og starf hans við útbreiðslumál okkar. Ég geri ekki meira nú en rétt að minnast á ferðir hans, því þær eru rétt að byrja. En að mikið gott leiði af þeim megum við telja sem sjálfsagðan hlut og verður það félaginu og málefnum þess til ómetanlegs styrks. —

Annar maður, sem er utan stjórnar félagsins, en sem heldur áfram að vinna að málum vorum og hefir leyst mikið og gott verk af hendi þetta liðna ár er Dr. Richard Beck.

Dr. Beck, fyrrverandi forseti félagsins, hefir sem áður sýnt í verki góðhug sinn til þess og haldið áfram útbreiðslu- og kynningarstarfsemi sinni í þágu íslenzkra bókmennta og menningar. Hann flutti kveðjur félagsins á ársfundi fræðafélagsins The Society for the Advancement of Scandinavian Study bæði í fyrravor, er fundurinn var haldinn í North Park College, Chicago, og aftur nú í maíbyrjun, er fundurinn fór fram í Luther College, Decorah, Iowa; í sambandi við ársfundina flutti hann einnig á umræddum skólum eða öðrum samkomum erindi um íslenzk efni, og einnig á ársfundunum sjálfum. Ennfremur hefir hann á tímabilinu síðan seinasta þjóðræknisþing var haldið flutt önnur erindi og ræður um Ísland og íslenzkar bókmenntir, meðal annars í útvarp frá Grand Forks. Þá má sérstaklega geta þess, að hann talaði nýlega á segulband þrjú hálftíma erindi um vestur-íslenzk ljóðskáld, er útvarpað var af Ríkisútvarpinu íslenzka. Dr. Beck hefir einnig, eins og að undanförnu, ritað margt um íslenzk efni bæði á ensku og íslenzku, meðal annars minningargrein um herra Svein Björnsson, forseta Íslands og heiðursverndara félags vors, og verður hún birt sem forustugrein í sumarhefti „The American-Scandinavian Review' í New York.

Margt fleira mætti nefna, því í raun og veru er alt, sem félagið gerir, — hvort sem það er stjórn þess, deildir eða einstaklingar innan þeirra, útbreiðslustarf. En þar sem ég skipti málunum niður, tek ég upp næsta atriði, sem ég nefni:

**Gestir**

Gestir á þessum síðastliðnu fimmtán mánuðum hafa ekki verið eins margir og oft áður. En þó má telja meðal þeirra þá, sem Íslendingum var mikið fagnaðarefni að mega sjá og kynnast. Fyrst má nefna þær tvær konur, sem ég nefndi áðan, og sem komu undir umsjón háskólakenslustólsnefndarinnar — frú María Markan Östlund og ungfrú Agnes Sigurdson. Þær komu fram á skemtikvöldi, sem haldið var í Playhouse Theatre; einnig söng frú María Markan í báðum kirkjunum.

Hingað kom til að ganga í þjónustu háskólans ungur maður og kona hans, Dr. Áskell Löve og frú, sem bæði eru grasa-

fræðingar. Þau teljast nú vart gestir lengur, þar sem þau komu til langdvalar. Við fögnuðum komu þeirra og vonum, að þeim líði vel hér á meðal okkar.

Þá kom ungur læknir frá Íslandi til framhaldsnáms, Dr. Stefán Björnsson. Hann stundar nám við læknaskólann, en starfar þar að auki sem læknir á Almenna sjúkrahúsinu hér í borg. Hann getur tæpast kallast gestur, því nú fer hann að verða heimamaður og einn af okkur. Ég óska honum líka alls hins bezta og vona að hann kunni vel við sig hér.

Þá vil ég næst nefna Pál Ísólfsson organleikara dómkirkjunnar í Reykjavík og frú hans, sem félaginu tókst að fá hingað í haust. Það var að tilhlutan stjórnarnefndarinnar að Dr. Páll og frú hans komu til Winnipeg. Þau voru á ferð í Bandaríkjunum þegar nefndin gekst í það að fá þau hingað norður með þeim árangri að Íslendingum hér í Winnipeg veittist það tækifæri, sem suma þeirra hafði aldrei dreymt um að þeim gæfist, að hlusta á aðaltónsnilling Íslands, sem uppi er á vorri tíð. Við vorum svo heppnir að geta fengið Westminster kirkjuna, þar sem nýbúið var að gera við pípuorgelið, svo að það telst nú vera það fullkomnasta og bezta í Vestur Canada. Það var mikil fagnaðarstund.

Dr. Páll Ísólfsson og frú brugðu sér norður til Gimli og hittu þar gamla fólkið á Betel. Var það mikil gleðistund fyrir mig að geta farið þá ferð með þeim, og svo að vera gestur hjá sóknarprestinum á Gimli, séra Haraldi Sigmar á eftir. Dr. Páll og frú hans eignuðust marga vini hér þó að dvöl þeirra hér væri alt of stutt. Ég hneigist til að segja eins og maður einn — að þó að nefndin hefði ekkert annað gert á árinu en það að fá Dr. Pál og frú hans norður til Winnipeg, þá mætti segja, að hún hefði gert skyldu sína fyrir árið.

**Samband við Ísland**

Við komu hvers manns eða konu frá Íslandi — og við ferð hvers manns eða konu héðan til Íslands, styrkjast böndin við ættlandið.

Það er ekki annað hægt að segja, en að böndin hafi styrktzt við komu manna eins og Dr. Páls Ísólfssonar, Próf. Finnboga Guðmundssonar, Dr. Áskells Löve, Dr. Stefáns Björnssonar og annara, og við ferðir manna og kvenna héðan til Íslands. Svo vil ég leyfa mér að minnast þess, að stjórn Íslands hefir séð sér fært að heiðra nokkra menn hér vestra með því að veita þeim heiðursmerki — riddarakross Fálkaorðunnar. Meðal þeirra er bæjarstjóri Gimlibæjar, Bjarni Egilson, Dr. P. H. T. Thorlakson og ég sem forseti Þjóðræknisfélagsins; fleiri kunna að hafa hlotið þessa sæmd, þó mér sé ekki kunnugt um nöfn þeirra í svipinn.

Þetta eru alt liðir í sambandi okkar við Ísland, og ekki er annað hægt að segja, en að það samband sé sterkt, trygt og órjúfanlegt. Það eru margir góðir menn beggja megin hafsins, sem mikinn áhuga hafa fyrir því að viðhalda sambandinu og varðveita það á allan hátt. Þetta sést meðal annars af því, að stjórn Íslands sá sér fært í fyrra að leggja fram tillag í háskólasjóðinn honum til eflingar og stuðnings.

Samböndin milli Austur- og Vestur-Íslendinga eru traust og trygg. Við þurfum engar áhyggjur að hafa út af því að þau muni slitna í náinni framtíð.

**Útgáfumál**

Undir þessum lið er lítið annað að segja, en það, sem sagt var í fyrra. Þjóðræknisfélagið gefur út og gaf út í vetur Tímaritið í sama formi og vandaða frágangi og áður, sem er ritstjóra þess, hr. Gísla Jónssyni, aðallega að þakka. Ritið er með sömu ágætum þetta ár eins og það áður hefir verið og félaginu til heiðurs og sóma.

Auglýsingasöfnunin tókst með ágætum, og betur en sumir gerðu ráð fyrir. Mrs. Björg Einarsson sá um auglýsingasöfnun þetta ár og vil ég fyrir hönd félagsins þakka henni fyrir hennar ágæta starf, sem hefir ábyrgð og mikla vinnu í för með sér, en hún leysti það vel af hendi.

En nú vil ég enn einu sinni minna menn á, að Tímaritið er hætt að geta borið sig. Kostnaður á prentun, pappír og vinnu hefir aukizt gífurlega á síðustu árum. Auglýsingarnar hrökkva ekki til að borga kostnaðinn. Ég vildi að það kæmi fram tillaga um að hækka meðlimagjaldið, sem við, sóma okkar vegna sem Íslendingar, og ef að mál okkar eru nokkurs virði, ætti ekki að vera minna en fimm dollarar á ári. Og þó að við borguðum annan dollar í viðbót fyrir ritið, væri það engan veginn of mikið, ef að okkur er ant um þau mál, sem Þjóðræknisfélagið vinnur að og styður. Mér finst og hefir lengi fundist sá maður nokkuð lélegur þjóðræknismaður, sem miðar þjóðrækni sína við eina dollarinn á árinu, er hann borgar til þess að geta kallast meðlimur Þjóðræknisfélagsins og fá svo ritið í viðbót, sem er í sjálfu sér, þegar á allt er litið, ekki minna virði en tveggja dollara.

Menn eru heimtufrekir á tíma og vinnu stjórnarinnar, en þegar stungið er upp á hækkun meðlimagjalds, þá er æpt á móti. Ég verð að segja hreinskilnislega, að ég skil ekki þann hugsunarhátt, og ég lofa því, að hvort sem ég skipa embætti eða ekki næsta ár, þá geri ég ráð fyrir að halda áfram að leggja fram tillögur um að hækka meðlimagjaldið til þess að það

komi að einhverjum notum að vera meðlimur félagsins, og að aðeins þeir ráði málum þess, sem eru reiðubúnir til að láta verk fylgja orði, að sýna það með verkunum að þeir beri umhyggju fyrir málum félagsins, nógu mikla til þess að vilja borga í félagssjóð eitthvað meira en þennan eina fátæklega dollar á ári, sem nú er borgaður.

Undir þessum lið vil ég líka minnast á bók, sem gefin var út á Íslandi, er samin var af varaforseta félagsins, Dr. Tryggva J. Oleson. Bókin er, eins og menn vita, áframhald af Sögu Íslendinga í Vesturheimi, samtaka þeirra, landnáms og annara viðburða. Bókin hefir fengið góða dóma og ætti að vera í hverju bókasafni, hvort sem er einstaklings eða félags. Bókin fæst í bókabúð Davíðs Björnssonar.

**Háskólamál**

Undir þessum lið kem ég að máli, sem ég hefi vikið að í öðrum greinum, og er það mér gleðiefni að geta auglýst það hér, þó það sé engum nýjar fréttir, að byrjað var að starfrækja kenslustólinn í vetur, að því leyti til, að prófessor var ráðinn og kom hann hingað í desembermánuði s.l.; hefir hann verið að kynna sér Íslendinga hér vestra, bæði í Winnipeg og utan bæjar, og líka hefir hann kynnt sér tilgang og afstöðu stofnunar þessa kenslustóls. Eftir því, sem ég bezt veit, er takmarkinu, sem sett var, næstum því náð. Walter dómari Lindal, sem ein driffjaðranna hefir verið, ber skýrslu um það efni inn á þing á morgun (þriðjudag) kl. 10 f. h. og þá fáum við að heyra hvað hefir gerzt og hvernig alt hefir gengið.

Okkur var öllum mikið gleðiefni að taka á móti nýja Prófessornum, Finnboga Guðmundssyni. Margir meðal eldri Íslendinga þektu föður hans eða könnuðust við hann. Og svo kom hann hingað með hin beztu meðmæli, sem mögulegt var að heimta! Verður mikils vænst af honum er tímar líða. Við megum bara ekki vera of kröfuharðir á honum og ætla að hann vinni of stór kraftaverk fyrir okkur. Við verðum að vera í leik með honum og styrkja og styðja hann á allan mögulegan hátt til þess að þessi tilraun takist. En hún verður og er hið glæsilegasta minnismerki, sem Íslendingar skilja hér eftir sig. Það hefir engu öðru þjóðarbroti tekist að gera annað slíkt, jafnvel ekki þeim, sem miklu fjölmennari eru! En þó að svo sé megum við ekki leggja árar í bát, því framtíðin kallar. — Við verðum að ráðstafa framtíð þessa embættis og annars í sambandi við mál vor. Dr. Thorlakson, sem mikið hefir unnið að þessum málum og verið önnur aðaldriffjörðrin í þeim, flytur hér ávarp á miðvikudagsmorguninn kl. 11, sem hann kallar „**Þjóðræknissamtök Vestur-Íslendinga og framtíðin**“. Og þá fáum við að heyra meira um þetta mál. En í millitíðinni býð ég Prófessor Finnboga Guðmundsson hjartanlega velkominn til okkar og óska honum alls góðs í þeirri ábyrgðarmiklu stöðu, sem hann hefir verið skipaður í.

**Íslenzkukennsla**

Um íslenzkukennslu barna á laugardögum er það að segja, að þennan undanfarna vetur höfum við haft eina af hinum samviskusömustu kennslukonum, sem við höfum enn haft völ á. Á hverjum laugardegi gerði hún sér ferð inn í bæinn alla leið frá Middle Church, hvernig sem veður var, til að kenna börnunum. Ég á hér við Mrs. Guttormsson, mikilhæfa konu. En börnin voru miklu færri en vanalega og sóttu skólann illa. Hvort það var nokkrum að kenna en foreldrunum og börnunum sjálfum veit ég ekki. En vonandi er, að hægt verði að endurreisa skólann aftur og að hann verði með sama blóma og að hann var fyrir örfáum árum. Þetta verður mál fyrir hina nýju stjórnarnefnd að ráða fram úr og ég vona, að henni takist það betur en nefndinni, sem við völd hefir verið.

**Námsstyrkur**

Í námstyrksmál var nefnd sett á síðasta þingi, milliþinganefnd, en aldrei var hún kölluð saman, en þó tók stjórnarnefndin sig til og styrkti unga og efnilega stúlku til framhaldsnáms á Frakklandi, ásamt með öðrum stofnunum og vinum hér í bæ. Hún var Miss Thora Ásgeirson, sem nú er á Frakklandi og stundar þar nám í píanóleik. Til er margt ungt íslenzkt hæfileikafólk, sem væri þess maklegt að hljóta styrk. Ætti því e. t. v. að stofna sjóð, sem draga mætti úr einhverja ákveðna fjárupphæð til styrktar þeim, sem nefndin velur á hverju ári. Ómögulegt er að segja annað, en að það sé þarft og viðeigandi þjóðræknisstarf!

**Ný mál**

Undir þessum lið kemur mér eitt mál aðallega til hugar, en það er, að þar sem að eignir félagsins, sem sumar eru dýrmætir gripir, eru orðnar töluvert margar, ætti félagið að hafa einhvern ákveðinn geymslustað, sem hægt væri að flytja þá muni á, og líka sem hægt væri að geyma þá á óskemmda. Staðurinn verður að vera góður.

Ég hefi t. d. á því tímabili, sem ég hefi verið forseti félagsins, safnað að mér úr ýmsum áttum munum, sem félagið átti eða hefir eignast, eins og t. d. sem hér segir:

**Skrautritað skjal, innbundið í leðurband, frá ríkisstjórn Íslands.**

**Skrautritað skjal frá Þjóðræknisfélagi Íslands.**

**Útskorinn kertastjaka frá Ungmennafélagi Íslands.**

**Tvær standmyndir, gerðar af íslenzkri konu.**

**Myndamót fyrir heiðursfélagaskírteini.**

**Prentuð form af heiðursfélagaskírteinum.**

**Málverk frá Íslandi.**

**Plötur, sem félagið hefir eignast, af ræðum fluttum á Íslandi.**

Þessir munir eru hjá mér. Þar að auki eru blöð og bækur og ýmislegt annað dýrmætt, sem má ekki glatast eða skemmast. Þetta mál hefir verið borið inn á fund stjórnarnefndar en engin ákvörðun gerð. Þingið mætti e. t. v. vísa þessu máli til nefndarinnar og biðja hana að ganga frá því nú, er ég geng úr embætti, eins og ég hefi ákveðið að gera, vil ég ekki aðeins geta afhent nýju nefndinni þessa muni heldur vil ég einnig hafa einhverja vissu um, að þeir verði geymdir á góðum stað, þar sem engin hætta er á að þeir skemmist. Mér var trúað fyrir þeim og mér finnst ég bera ábyrgð á þeim enn, jafnvel þó að ég gangi úr nefndinni.

Að endingu vil ég svo minnast þess, að úr nefndinni gekk í vor skrifari okkar, sem var líka heiðursfélagi, hr. J. J. Bíldfell. Hann var einn af stofnendum félagsins og var einn af hinum fáu, sem hélt áfram að starfa í nefndinni þrátt fyrir háan aldur og önnur störf. En nú í vor ráðgerði hann að flytja austur til Montreal, ekki þó til að setjast í helgan stein, því að hann heldur uppi starfsemi þar eða gerir ráð fyrir því, eins og „hann væri enn ungur maður.“ Stjórnarnefndin hélt honum kveðjusamsæti og óskaði honum allrar blessunar, er hann fór, og þakkaði honum fyrir samstarfið á því langa tímabili, frá því að félagið var stofnað. Og ég veit að þingið gerir hið sama.

Nú er máli mínu lokið. En samt eru eftir atriði, sem ég hefi ekki minnst á, en hefðu ef til vill átt að vera talin upp. En af þessu sést, að þó að mikið vanti á, að nefndin hafi unnið fullkomið verk, hefir hún ekki verið iðjulaus. Í mörg horn hefir verið að líta, og þegar verkið er í hjáverkum unnið, er varla við öðru að búast, en að á vanti.

Ég býð alla fulltrúa og gesti velkomna á þetta þrítugasta og þriðja ársþing Þjóðræknisfélags Íslendinga í Vesturheimi, og vona að það takist vel.

Ég segi þetta þing sett og bið þingheim að taka til starfa.

Dr. Richard Beck lagði til að nefndinni sé þakkað fyrir starfið á liðnu ári, Trausti Ísfeld studdi, samþykt.

Þá las skrifari þingboðið, er birst hafði í báðum íslenzku blöðunum.

Dr. Richard Beck lagði til og Trausti Ísfeld studdi, að forseti skipaði tvær þriggja manna nefndir: kjörbréfanefnd og dagskrárnefnd. Varaforseti bar fram tillöguna og var hún samþykt. Þessir voru skipaðir í kjörbréfanefnd:

Jón Jónsson, Winnipeg
Mrs. L. Sveinson, Lundar
Einar Magnússon, Selkirk.

En í dagskrárnefnd:

Dr. Richard Beck, Grand Forks, N.D.
Ragnar Stefánsson, Winnipeg
T. J. Gíslason, Morden.

Tóku þessar nefndir til starfa, en á meðan var 10 mínútna hlé.

Dr. Beck las síðan skýrslu dagskrárnefndar og var hún svona:

**Skýrsla dagskrárnefndar**

Dagskrárnefndin leggur til, að fylgt sé hinni prentuðu dagskrá þingsins, að því viðbættu, að sem 6. liður komi: Minningarathöfn um herra Svein Björnsson, hinn nýlátna forseta Íslands. Verður dagskráin þá á þessa leið:

1. Þingsetning
2. Ávarp forseta
3. Kosning kjörbréfanefndar
4. Skýrslur embættismanna
5. Skýrslur deilda
6. Minningarathöfn
7. Skýrslur milliþinganefnda
8. Útbreiðslumál
9. Fjármál
10. Fræðslumál
11. Samvinnumál
12. Útgáfumál
13. Kosning embættismanna
14. Ný mál
15. Ólokin störf og þingslit.

Var skýrslan samþykt með álögðum breytingum.

Fjárhagsskýrslu félagsins var útbýtt meðal fundarmanna og las féhirðir G. L. Jóhannsson skýrsluna og útskýrði hana og lagði síðan til að henni væri vísað til væntanlegrar fjárhagsnefndar. Mrs. S. Backman studdi tillöguna og var hún samþykt.

Fjármálaritari Guðmann Levy las sína skýrslu og lagði til að henni væri vísað til væntanlegrar fjármálanefndar. G. L. Jóhannsson studdi tillöguna og hún var samþykt.

Þá las féhirðir skýrslu Hannesar Péturssonar, er tók að sér umsjón byggingarinnar að 652 Home Street eftir lát Ólafs Péturssonar skjalavarðar og eignaumsjón-

armanns félagsins. Lagði féhirðir til að skýrslunni væri vísað til fjármálanefndar, en Th. Gíslason studdi, samþykt.

**Reikningur féhirðis**

Yfir tekjur og útgjöld Þjóðræknisfélags Íslendinga í Vesturheimi frá 19. febrúar 1951 til 11. marz 1952

| | | | |
|---|---|---|---|
| TEKJUR: | | | |
| Á Royal Bank of Canada, 19. febr. 1951 | | | $2,609.53 |
| Frá fjármálaritara fyrir meðlimagjöld | | $ 356.67 | |
| Fyrir auglýsingar í XXXII. árg. Tímaritsins | | 1,728.32 | |
| Fyrir auglýsingar í XXXIII. árg. Tímaritsins | | 103.00 | |
| 652 Home Street | $1,500.00 | | |
| Í fyrningarsjóði | 600.00 | 900.00 | |
| Eldri reiknings innheimta | | 15.03 | |
| Bankavextir | | 12.29 | |
| Allar tekjur á árinu | | | $3,115.31 |
| Samtals | | | $5,724.84 |
| ÚTGJÖLD: | | | |
| Ársþingskostnaður 1951 | | | $ 146.82 |
| **Tímarit XXXII. árg.:** | | | |
| Ritstjórn og ritlaun | $ 308.50 | | |
| Prentun | 1,772.26 | | |
| Auglýsingasöfnun | 432.09 | | 2,512.85 |
| **Tímarit XXXIII. árg.:** | | | |
| Prentun (fyrirfram borgun) | $ 900.00 | | |
| Auglýsingasöfnun | 25.75 | | 925.75 |
| Til Laugardagsskólakenslu | $ 81.25 | | |
| Ágóði af samkomu | 50.00 | | 31.25 |
| Til deildarinnar „Frón" fyrir bókasafnið | | | 73.98 |
| Námsstyrkur, Miss Thora Ásgeirson | | | 300.00 |
| University of Manitoba, til íslenzku deildarinnar | | | 500.06 |
| Til móttöku gesta | | | 210.77 |
| Keyptar 2 myndir | | | 50.28 |
| Þóknun fjármálaritara | | | 36.91 |
| Prentun | | | 21.76 |
| **Ýmislegt:** | | | |
| Banka- símgjöld, frímerki o. fl. | | | 64.55 |
| Allur kostnaður á árinu | | | $4,874.98 |
| 11. marz, 1952 Á Royal Bank of Canada | | | 849,86 |
| Samtals | | | $5,724.84 |

| | |
|---|---|
| **Fyrningarsjóður, 652 Home Street:** | |
| Dominion of Canada Bonds, 3%, Oct. 1, 1963 | $ 600.00 |
| Innstæða á Royal Bank of Canada | 600.00 |
| Alls | $1,200.00 |

**Grettir Leo Johannson**, féhirðir

Framanritaðan reikning höfum við endurskoðað og höfum ekkert við hann að athuga.

Winnipeg, Canada, 28. maí 1952

**Steindór Jakobsson**
**J. Th. Beck**

**Skýrsla fjármálaritara**

Yfir árið 1951

| | | |
|---|---|---|
| INNTEKTIR: | | |
| Frá meðlimum aðalfélagsins | $ 71.00 | |
| Frá deildum | 284.15 | |
| Frá sambandsdeildum | 14.00 | |
| ÚTGJÖLD: | | |
| Burðargjöld undir bréf og Tímarit | | $ 12.48 |
| Afhent féhirði | | 356.67 |
| Alls | $369.15 | $369.15 |

**Guðmann Levy**, fjármálaritari

**STATEMENT**

**652 Home Street 1951**

| | | |
|---|---|---|
| RECEIPTS: | | |
| Credit Balance, Jan. 1, 1951 | | $ 123.81 |
| Rents collected Jan. 1 to Dec. 31, 1951 | | 3,306.00 |
| EXPENDITURES: | | |
| City of Winnipeg, Taxes | $ 527.82 | |
| Insurance | 9.30 | |
| Decorations, Repairs, Supplies | 185.24 | |
| Fuel | 363.70 | |
| Light and Power | 183.48 | |
| Water and Sewer Rates | 68.57 | |

| | | |
|---|---|---|
| Expenses— | | |
| Tímarit, storage | 4.40 | |
| Management | 120.00 | |
| Sundry Expense | 12.00 | |
| Icelandic National League | 1,500.00 | |
| | $2,974.51 | |
| Credit Balance Dec. 31, 1951 | 455.30 | |
| | $3,429.81 | $3,429.81 |

The above statement has been audited and found correct.

**Jóhann Th. Beck, Steindór Jakobsson,**
Auditors.

Næst lagði kjörbréfanefnd fram bráðabirgðarskýrslu og voru þessir fulltrúar á þingi, en fleiri voru væntanlegir.

H. G. Grímsson lagði til að skýrslan væri viðtekin, en að kjörbréfanefnd héldi áfram starfi sínu þar til allir fulltrúar hefðu skilað kjörbréfum sínum. Dr. Beck studdi tillöguna og var hún samþykt.

**Nöfn erindreka á þjóðræknisþingi 2., 3. og 4. júní 1952**

„Báran", Mountain, N.D.
H. C. Hjaltalín ....20 atk.
Jóhannes Anderson ....20 —
A. M. Ásgrímsson ....20 —
G. J. Jónasson ....20 —
H. B. Grímson ....20 —

„Frón", Winnipeg, Man.
Próf. T. J. Oleson ....18 —
Próf. F. Guðmundsson ....18 —
Mrs. I. Jónsson ....16 —
Mrs. B. E. Johnson ....18 —
Miss E. Hall ....18 —
Mrs. Salome Backman ....18 —
Hjörtur Brandson ....18 —
Ragnar Stefánsson ....18 —
Jón Jónsson ....18 —

„Brúin", Selkirk, Man.
Mrs. Sylvia Laronde ....15 —
Trausti Ísfeld ....11 —
E. Magnússon ....16 —

„Esjan", Árborg, Man.
Alis Peterson ....11 —
Svanbjörg Sveinson ....11 —
Sesselja Böðvarson ....11 —
Þórarinn Gíslason ....11 —
Herdís Eiríkson ....10 —
Sigurður Einarson ....11 —

„Gimli", Man.
Mrs. Kristín Thorsteinson ....20 —
Mrs. J. B. Johnson ....20 —
Mr. J. J. Johnson ....20 —
Ingólfur Bjarnason ....20 —

„Lundar", Man.
Ólafur Hallson ....16 —
Mrs. L. Sveinson ....17 —
Mrs. Soffía Benjamínsson ....16 —

„Ísland", Morden, Man.
J. B. Johnson ....12 —
T. J. Gíslason ....12 —
Thomas Thomasson ....12 —

J. JOHNSON
MRS. L. SVEINSON
E. MAGNÚSSON

Fundi slitið þar til kl. 2 e. h.

**Annar fundur**

Annar fundur Þjóðræknisfélagsins var settur kl. 2 e. h. á mánudaginn 2. júní. Skrifari las fundargerning og var hann samþyktur með nokkrum smá leiðréttingum, samkvæmt tillögu Trausta Ísfelds og H. B. Grímssonar.

Forseti las skýrslu frá þjóðræknisdeildinni á Gimli og var hún samþykt, samkvæmt tillögu Dr. Becks og H. B. Grímssonar. Lét Dr. Beck í ljósi ánægju sína yfir því hve skýrslan bæri glöggan vott um mikinn áhuga fyrir þjóðræknisstarfinu, og í sama streng tók Mrs. S. Backman.

**Ársskýrsla deildarinnar „Gimli" árið 1951**

Síðastliðið ár hefir starfsemi deildarinnar gengið vel undir forustu Jóns J. Jónssonar. Samkoma var haldin á árinu, er fór fram á íslenzku. Börn íslenzku skólans skemtu þar ásamt Söngflokk Nýja-Íslands undir stjórn Jóhannesar Pálssonar. Forseti Þjóðræknisfélagsins var þar einnig staddur með upplestur. Arður af þessari samkomu fór til íslenzka kenslustólsins við Manitobaháskóla.

Íslenzku skólinn var settur í gang í október og starfaði til 1. maí. Forstöðukona skólans var Mrs. Sylvia Kardal. Með henni störfuðu þessar konur:

Mrs. Albina Johnson
Mrs. Josephina Johnson
Mrs. Guðrún Einarsson
Mrs. Jóhanna Helgason
Mrs. Ingibjörg Bjarnason.

Nýlega heimsóttu börn íslenzku skólans „Betel" og skemtu gamla fólkinu með upplestri, framsögn og söng.

Deildin telur 90 meðlimi. Í sjóði um áramótin $20.00. Félagsskapurinn er fátækur peningalega, en ríkur af áhuga.

Í vetur var stofnuð lestrardeild. Mrs. Kristín Thorsteinsson veitti þeirri deild forstöðu. Sú deild hefir haft sögulestur tvisvar í mánuði. „Njála" var lesin spjalda á milli. Miss Sigurbjörg Stefánsson las og útskýrði fyrir hlustendum. Þótti það mjög góð skemtun og var vel sótt.

Embættismenn deildarinnar eru:
Forseti: Jón J. Jónsson
Skrifari: Ingólfur N. Bjarnason
Gjaldkeri: Elías Ólafsson
Með beztu kveðjum til þingsins.

Þá las forseti skýrslu deildarinnar „Brúin" í Selkirk. G. J. Jónasson lagði til, og margir studdu, að hún væri samþykt.

**Skýrsla deildarinnar „Brúin" í Selkirk fyrir árið 1951**

Deildin hélt sex fundi á árinu, sem voru allir nokkuð vel sóttir, og hafði tvær arðberandi samkomur. Einnig efndi deildin til skemtisamkomu fyrir eldra fólkið, sem höfð var 15. maí. Séra Sigurður Ólafsson ávarpaði heiðursgestina með vel völdum orðum eins og honum er títt. Einnig flutti Mr. Ólafur Hallson erindi um Ísland og ferð sína þangað.

Þrír meðlimir hafa dáið á árinu: Mrs. Guðlaug Johnson, Mrs. Herman Nordal og Miss Adda Thordarson.

Þrír nýir meðlimir hafa gengið í félagið á árinu.

Meðlimatala deildarinnar er nú 49.

ED. B. OLSON, forseti
A. GUÐBRANDSON, skrifari

H. B. Grímsson las skýrslu deildarinnar „Báran", N. Dakota, og var hún þökkuð og samþykt, samkvæmt tillögu Mrs. L. Sveinsson og Próf. T. J. Oleson.

**Skýrsla deildarinnar „Báru", Mountain, N.D. fyrir árið 1951**

Ársfundur Báru var haldinn að Mountain, N.D., þann 2. febr. 1952 og voru eftirfylgjandi kosnir í embætti fyrir þetta nýbyrjaða ár:

H. T. Hjaltalín, forseti
G. J. Jónasson, varaforseti
H. B. Grímson, skrifari
O. G. Johnson, varaskrifari
Jóhannes Anderson, féhirðir
S. A. Björnson, varaféhirðir
P. B. Ólafsson, fjármálaritari
O. K. Thorsteinsson varafjárm.
Helgi Björnsson, skjalavörður.

Á árinu voru haldnir þrír aðalfundir og sjö nefndarfundir, og voru flestir allvel sóttir og skemtilegir, samt er það okkar aðalmein hvað illa eru sóttir fundir svona vanalega.

Starfið á árinu hefir gengið vel; við héldum samkomu 17. júní 1951 og var samkoman allvel sótt og gott veður. Séra E. H. Fáfnis og Dr. Richard Beck voru aðalræðumenn á samkomunni og svo var tvísöngur og almennur söngur; fór allt mjög vel fram og var gerður góður rómur að samkomunni. Forseti, G. J. Jónasson, setti samkomuna og kallaði á borgarstjóra M. F. Björnson til að bjóða fólk velkomið, sem hann gjörði mjög myndarlega, og svo tók Dr. R. Beck við stjórn og tókst það prýðilega. Gov. Brunsdale var á samkomunni og ávarpaði fólkið.

Báran fékk Mrs. H. F. Danielson frá Winnipeg suður aftur fyrstu viku í júní og var hún hér í fimm vikur að kenna söng og íslenzku. Hún kendi í þremur stöðum, Gardar tvo daga í viku, Mountain tvo daga og Hallson tvo daga í viku; sóttu alls 85 börn skólann, hafði hún svo tvær samkomur, aðra á Gardar og hina á Mountain, voru báðar vel sóttar og gjörðu börnin framúrskarandi vel; var samkoman Mrs. Danielson og börnunum til stórsóma og á Mrs. Danielson stórar þakkir skilið fyrir ágætt starf þennan tíma, sem hún var hér hjá okkur, aftur kærar þakkir.

Tani Björnsson frá Seattle hélt söngsamkomu hér í kirkjunni að Mountain í ágústmánuði síðastl.; hann var aðstoðaður af Miss Kristine Bjornson frá Cavalier við hljóðfærið; var samkoman vel sótt og ágæt skemtun. Báran stóð fyrir samkomunni og ágóðinn af henni var gefinn til Elliheimilisins „Borg."

Báran telur 100 meðlimi nú.

Með óskum alls hins bezta og að breyting á þingtíma reynist til blessunar og kær kveðja til þingfólks og allra Íslendinga nær og fjær.

H. T. HJALTALÍN, forseti
H. B. GRÍMSON, skrifari

Dr. Tryggvi J. Oleson las skýrslu deildarinnar Frón í Winnipeg í fjarveru ritara, Heimis Thorgrímssonar. Th. J. Gíslason lagði til og Mrs. J. B. Johnson studdi að skýrslunni væri veitt viðtaka með þökkum og var það samþykt í einu hljóði.

**Ársskýrsla „Fróns"**

Ritari Fróns gerði all-ýtarlega grein fyrir starfi deildarinnar í skýrslu sinni á ársfundinum, sem haldinn var 3. desember 1951. Skýrsla þessi var prentuð í báðum íslenzku vikublöðunum 13. sama mánaðar og er þeim vísað til hennar sem frekar vilja fræðast um hag deildarinnar. Þrátt fyrir það verður samt reynt að gera hér grein fyrir því helzta, sem unnizt hefir síðan þing kom síðast saman.

Frón telur nú 204 meðlimi og er það hærri tala en verið hefir mörg undanfarin ár. Er þetta að miklu leyti að þakka dugnaði Jóns Johnson fjármálaritara. Fjárhagur deildarinnar er í góðu lagi. Er þetta aðallega því að þakka að tvö síðustu miðs-

vetrarmótin hafa borið sig ágætlega, en auk meðlimagjalda eru þessi mót eina tekjulind okkar. Samskot eru að vísu tekin á flestum almennum fundum, en sjaldnast fara þau fram úr fundarkostnaði. Hvað útgjöld snertir ber að geta þess, að Þjóðræknisfélagið hefir stutt okkur til bókakaupa af mikilli rausn undanfarin ár. Alt þetta hefir orðið til þess að við eigum nú eina hundrað dali í sjóði.

Á ársfundi 4. des 1950 tók Mrs. Ingibjörg Jónsson við forsetaembætti af Próf. Tryggva J. Oleson, sem því hafði gegnt með heiðri og sóma í fjögur ár. Enn er hann samt í nefndinni. Á síðasta ársfundi gengu úr nefndinni eftir langa og dygga þjónustu þeir Steindór Jakobsson og Davíð Björnsson, en í stað þeirra komu þeir Eric Ísfeld og Dr. Áskell Löve.

Á því tímabili, sem þessi skýrsla nær til, stóð deildin fyrir tveimur miðsvetrarmótum og voru bæði haldin í G. T. húsinu við mikla aðsókn. Fimm almennir fundir voru haldnir, en stjórnarnefndarfundir voru níu. Flestir fundir hafa verið allvel sóttir, en það köllum við góða aðsókn ef 80 til 100 manns eru á fundi.

Nú hefir sú breyting orðið á, að Frón fær að senda erindreka á þing eins og aðrar deildir og ætti þetta að efla aðstöðu okkar gagnvart aðalfélaginu og utanborgar deildum að miklum mun. Það þarf ekki að taka það fram, að Frón sækist ekki eftir neinu einræðisvaldi innan félagsins, en þar sem um þýðingarmikil mál er að ræða er gott að þurfa ekki að eiga alt undir þeim tiltölulega fáu meðlimum okkar sem að jafnaði sitja þing.

Frón mun eftir sem áður leitast við að starfa af dugnaði og samvizkusemi að öllum þeim málum, sem við álítum að helzt megi verða okkur Vestur-Íslendingum til góðs og gagns. Deildin hefir ekki til margra ára staðið betur að vígi gagnvart þeim málum, sem nú heimta úrlausnar.

H. THORGRÍMSSON, ritari

**N. B.** Ég læt fylgja prentuðu skýrsluna, sem vikið er að hér að framan, ef ske kynni að þingið kærði sig um að bóka hana. H. TH.

Sú breyting varð á stjórnarnefnd Fróns á síðasta ársfundi, að frú Ingibjörg Jónsson tók við forsetaembættinu af prófessor Tryggva J. Oleson, sem því hafði gegnt af dugnaði og stakri samvizkusemi, í fjögur undanfarin ár. Ekki fór hann þó úr nefndinni en tók við stöðu varafjármálaritara af Erni Thorsteinson, sem úr gekk. Aðrar breytingar urðu ekki á stjórnarnefndinni.

Fyrsti nefndarfundur, sem haldinn var 9. janúar 1951 ákvað að fara fram á það á næsta þjóðræknisþingi að deildin Frón fengi sömu atkvæðaréttindi og utanborgardeildir þar eð þingstaður myndi í framtíðinni ekki verða bundinn við Winnipeg. Var próf. T. J. Oleson falið að gefa stjórnarnefnd Þjóðræknisfélagsins sex mánaða fyrirvara svo sem félagslög mæla fyrir þar sem um breytingu á grundvallarlögum félagsins er að ræða.

Á næsta fundi nefndarinnar skýrði forseti frá því, að Háskólasjóðsnefndin hefði mælst til þess, að Frón hjálpaði til með sölu á aðgöngumiðum að samkomu þeirri, sem sjóðsnefndin hafði þá ákveðið að stofna til í Playhouse Theatre í marzmánuði 1951. Var afráðið að Frónsnefndin tæki að sér að selja 100 aðgöngumiða. Þetta tókst, aðallega fyrir framúrskarandi dugnað forseta og fjármálaritara Jóns Johnson, þótt aðrir nefndarmenn legðu auðvitað nokkurn skerf til þess.

Eins og fyrri daginn varð það fyrsta og stærsta verkefni nefndarinnar að ráðstafa Frónsmótinu. Það var að þessu sinni haldið í G. T. húsinu og tókst ágætlega. Hr. Valdimar Björnsson frá Minneapolis var aðalræðumaðurinn og mun orðstír þess mælskumanns hafa átt drjúgan þátt í því að fólk varð frá að hverfa að þessu sinni þar eð samkomusalurinn rúmaði ekki alla þá, er sækja vildu. Ágæt kvæði fluttu þeir Dr. Richard Beck og Einar P. Jónsson ritstjóri; karlakór Svía undir stjórn Arthurs A. Anderson skemti með góðum og fjörugum söng, en séra Eric H. Sigmar, aðstoðaður við hljóðfærið af Miss Sigrid Bardal, söng nokkra einsöngva öllum til stórrar ánægju.

Inntektir að þessu sinni urðu $428.00 og ágóði því sem næst $200.00 Sannaðist hér sem oftar, að Íslendingar sækja engar samkomur betur en þær, sem haldnar eru í G. T. húsinu.

Meðlimatala deildarinnar er nú hærri en verið hefir mörg undanfarin ár eða nokkuð á þriðja hundrað. Er þetta án efa mest að þakka frábærum dugnaði fjármálaritara Jóns Johnson.

Bókasafnið hefir ekki verið vanrækt þetta ár fremur en að undanförnu. Hefir það ekki lítið hjálpað til að stjórnarnefnd Þjóðræknisfélagsins hefir stutt okkur í þessu efni af ráði og dáð. Er það fyrst að nefna, að hún ánafnaði okkur 25 hundruð krónum til bókakaupa á Íslandi, og það annað að við fengum úr sama sjóði $35.00 upp í kostnað við nýjan bókalista, sem við létum gera í sumar sem leið. Nam þessi upphæð helmingi kostnaðar. Að lista þessum unnu þau mest bókavörður, Jón Johnson, og forseti okkar. Nú eru um 2000 bindi í safninu. Telur sá, er þetta ritar, að viðhald bókasafnsins sé þýðingarmesta starf deildarinnar og vill mælast til þess að allir þeir, sem ráðstafa vilja bókum sínum, láti þær fara í þetta safn því

hvergi annars staðar eiga Íslendingar í Winnipeg aðgang að íslenzkum bókum, ef þeir örfáu eru undanskildir, sem heimild hafa til þess að nota safn háskóla fylkisins. Auðvitað er sjálfsagt að allar dýrmætar og sjaldgæfar bækur, sem ekkert erindi eiga á útlánssafn, fari á þann staðinn, sem bezt getur varðveitt þær, sem sé háskólasafnið.

Síðastliðið haust gafst Frón kostur á því að styrkja lítillega þann sjóð, sem efnt var til fyrir Thoru Ásgeirson, er nú stundar framhaldsnám í píanóspili í París á Frakklandi. Fékk deildin þarna að láta í ljós að einhverju leyti þakklæti sitt til Thoru, sem oft og mörgum sinnum hafði skemt á fundum okkar án eftirtalna eða endurgjalds.

Auk Frónsmótsins var almennur fundur haldinn 23. apríl s.l. og talaði þar Ólafur Hallsson kaupmaður frá Eriksdale um heimsókn sína til Íslands sumarið 1950. Bar hvert orð ræðumanns fallegan vott um ást og ræktarsemi gagnvart ættlandinu. Einnig spilaði Ólafur nokkur lög eftir sig á hljómplötur, en séra Valdimar J. Eylands sýndi fallegar myndir frá Íslandi, sem hann skýrði með afbrigðum vel.

Annar opinn fundur var haldinn 1. okt. s.l. og flutti þá próf. Áskell Löve skipulega ræðu, en sýndi síðan ótal ágætar litmyndir frá Íslandi, og fékk hvorttveggja bezta dóm. Þetta kveld voru einnig spilaðar hljómplötur, sem teknar voru á Íslendingadeginum á Gimli síðastliðið sumar og síðan var útvarpað yfir C.B.C Að þessu var stór skemtun. Báðir þessir fundir voru all-vel sóttir, t. d. voru á annað hundrað manns á þeim seinni.

Stjórnarnefndin hélt sjö fundi á árinu og voru þeir allir vel sóttir, enda kom það sér betur, því alt starf deildarinnar lendir, að heita má, á nefndinni og þarf ekki að fárast um það því svo mun víðar vera.

Í það heila tekið má segja, að starf deildarinnar hafi tekist vel og borið nokkurn ávöxt þótt eflaust mætti meira gera ef nokkur verulegur áhugi væri fyrir starfi hennar hjá almenningi í heild. Víst er það þó, að ekki ættu eldri Íslendingar hér í borg í mörg hús að venda hvað samkomur snertir ef Frón lognaðist út af. Til þess kemur þó ekki fyrst um sinn.

Winnipeg, 3. desember, 1951

H. THORGRÍMSSON, ritari

Lögberg, 13. desember, 1951.

Mrs. Herdís Eiríksson frá Árborg las skýrslu frá deildinni „Esjan". Dr. Richard Beck lagði til og Mrs. De Laronde studdi að skýrslunni væri veitt móttaka með þökkum og var það samþykt.

**Skýrsla**
**deildarinnar „Esjan", Árborg, Man.**

Meðlimatala fyrir árið sem leið 65.

Þrír aðalfundir hafa verið haldnir á árinu, og nefndarfundir eftir þörfum.

Okkar árlega samkoma, upplestrarsamkeppni í íslenzku, var haldin 17. nóvember 1951, og var dómnefnd frá Winnipeg, Mr. Gísli Jónsson, Dr. Áskell Löve og séra Philip M. Pétursson. Þökkum við þessum mönnum fyrir komuna. Sérstakt þakklæti viljum við votta séra Philip M. Péturssyni fyrir hvað fljótt og vel hann liðsynnti okkur þegar leitað var til hans í þessum erindum, á hvaða tíma árs sem var. Á þessari samkomu skemtu einnig börn og unglingar með íslenzkum söng. Létu dómarar ánægju sína í ljósi yfir söng og framkomu barnanna.

Lestrarfélag deildarinnar starfar með sama hætti og að undanförnu. Enn er mikið lesið hér af íslenzkum bókum. 520 bækur lánaðar út á árinu, þar eru ekki taldar bækur sem lesnar hafa verið á heimilinu, þar sem bækurnar eru geymdar. 20 bækur voru keyptar og gefnar til félagsins, þar með ekki talin tímaritin. 9 bækur voru bundnar.

Í stjórnarnefnd eru:

Gunnar Sæmundsson, forseti
Valdi Jóhannesson, varaforseti
Herdís Eiríksson, ritari
Emma Vigfússon, vararitari
Tímóteus Böðvarsson, féhirðir
Kristveig Jóhannesson varaféhirðir
Magnús Gíslason, fjármálaritari
Franklin Peterson, bókavörður
Kristveig Jóhannesson, varabókavörður.

**Fjármálaskýrsla:**

| | |
|---|---|
| Í sjóði frá fyrra ári | $135.50 |
| Inntektir á árinu | 105.80 |
| Samtals | $241.30 |
| Útgjöld á árinu | $101.50 |
| Í sjóði um áramót 1951—52 | 139.80 |

Dagsett 12. maí 1952 að Árborg, Man.

GUNNAR SÆMUNDSSON, forseti
HERDÍS EIRÍKSSON, ritari

Þá las Jón Jónsson, bókavörður deildarinnar „Frón", skýrslu um hag og starfsemi bókasafnsins. Miss Rósa Vídal fór viðurkenningarorðum um lipurð og samvizkusemi bókavarðar og var skýrslunni veitt móttaka með þökkum samkvæmt tillögu Mr. J. J. Johnson og Mrs. H. Eiríksson.

**Skýrsla bókavarðar**
**Þjóðræknisdeildarinnar „Frón“ í Winnipeg**

Yfir tímabilið frá 1. febr. 1951 til 31. maí, 1952

Ég hefi þær fréttir að færa, að aðsókn að bókasafninu þetta tímabil hefir verið, að mér finnst, ágæt. 110 konur og menn hafa fengið bækur lánaðar, og er það mikið meira, en verið hefir í mörg undanfarin ár, og hlýtur maður að gleðjast yfir því, að auðséð er að lestur á íslenzkum bókum er ekki í hnignun, að minsta kosti ekki hér í Winnipeg.

Bókasafnið hefir verið haft opið hvern miðvikudag frá kl. 10—11 f. h. og 7—8.30 e. h., nema tveggja mánaða tíma yfir sumarið (júlí og ágúst), sem fjöldi af fólki er í burtu úr borginni.

Deildin „Frón“ hefir keypt með hjálp frá stjórnarnefnd Þjóðræknisfélagsins um 60 nýjar bækur í bókasafnið á þessu áðurnefnda tímabili. Deildin „Frón“ hefir síðustu átta mánuði sent eftir sínum eigin bókum beint frá Íslandi, sem reynzt hefir ágætlega, bæði peningalega og þó meira þannig, að við fáum þær bækur sem að okkur vantar, og hafa þær komið hér til okkar jafnfljótt og þær koma á bókamarkað á Íslandi, og hefir þetta bætt mjög mikið fyrir bókasafninu. Einnig hefir verið gert við band á 80 bókum, sem voru ekki í neinu lagi til útlána, og er þetta annað atriði mjög áríðandi fyrir bókasafnið. Fyrir viðgjörðir á þessum bókum hefir verið borgað af stjórnarnefnd Þjóðræknisfélagsins. Þar fyrir utan hefir deildin „Frón“ látið binda allar þær bækur, sem að óbundnar voru; margar af þeim höfðu legið óbundnar í fleiri ár. Svo á þessum 18 mánuðum hefir deildin borgað 70 dali fyrir bókband, Bókalista lét deildin gjöra á þessu tímabili, og á honum eru 1800 bækur; þar fyrir utan eru um 400 bækur, sem að líkindum verður bætt á listann þetta sumar.

Lánaðar hafa verið út á þessu tímabili 4170 bækur, sem mun svara til þess að 82 bækur hafi verið lánaðar út hvern þann dag, sem bókasafnið var opið, og er vonandi að þetta haldi áfram um langan tíma.

Eins og að undanförnu hefir bókasafninu verið gefið talsvert af bókum, og hefir bókavörður þakkað því fólki opinberlega í báðum íslenzku blöðunum í Winnipeg.

Nú sem stendur er bókasafnið í þolanlega góðu ástandi. Eins og búast má við fer band á bókum, sem mikið eru lánaðar út mjög illa, og þarf, og er bezt að gjöra við þær eins fljótt og unt er; og ef gjört verður í framtíð, eins og gjört hefir verið þessa síðustu 18 mánuði, þá verður þetta safn í góðu ásigkomulagi, og kostar ekki neinar stórar upphæðir að halda því við.

Að síðustu þakkar bókvörður stjórnarnefnd Þjóðræknisfélagsins, bókanefnd „Fróns“ og öllum þeim, sem safnið hafa notað, fyrir ágæta samvinnu á þessu umgetna tímabili.

J. JÓNSSON, bókavörður

Mr. Th. J. Gíslason frá Brown las skýrslu deildarinnar „Ísland“ og var henni veitt móttaka með þökkum samkvæmt tillögu Mrs. L. Sveinsson og G. J. Jónasson.

**Skýrsla**
**deildarinnar „Ísland“ 1952**

Þetta verður stutt skýrsla frá deildinni okkar „Ísland“ í Morden bygð.

Þrír (3) fundir á árinu, sem voru heldur vel sóttir.

Einn af okkar meðlimum, Sigurður Ólafsson, sem hafði starfað í deildinni frá byrjun, féll frá 30. júlí síðastliðinn og söknum við hans, því hann var ágætur félagi og góður Íslendingur.

Tveir meðlimir úr kenslustólsnefndinni, þeir Dr. Lárus Sigurdson og herra Árni Eggertson lögfræðingur, heimsóttu þessa bygð í haust er leið og fóru fram á, að við söfnuðum þúsund dollurum $1000.00 til íslenzka kenslustólsins. Tveir meðlimir deildar okkar tóku að sér þessa fjársöfnun, þeir John B. Johnson, þáverandi forseti deildarinnar, og Thorsteinn J. Gíslason með þeim árangri að takmarkinu var náð. — Þegar tekið er tillit til þess, að samskot þessi voru frá aðeins fimmtán heimilum, þá má útkoman heita góð.

Embættismenn eru þetta ár:

Thomas Thomasson, forseti
Guðrún Thomasson, ritari
Benedikt Einarsson, varaforseti
Jónathan Thomasson, fjármálaritari
Thorst. J. Gíslason, féhirðir.

Svo óskum við þjóðræknisþinginu til lukku, og vonum að þessi tilraun með breytingu þingtímans verði til þess að örfa aðsókn að þinginu.

Við vonum að Prófessor Finnbogi Guðmundsson sjái sér fært að heimsækja okkur í sumar og hlökkum til komu hans.

Virðingarfylst,

THORSTEINN J. GÍSLASON

Mrs. L. Sveinson las skýrslu frá deildinni að Lundar. Trausti Ísfeld lagði til og Mrs. K. Thorsteinsson studdi að hún væri samþykt með þakklæti, og var það gert.

**Ársskýrsla**
**deildarinnar „Lundar“, Lundar, Man.**

Það hefir fátt skeð innan Þjóðræknisdeildarinnar „Lundar“ á síðastliðnu ári, sem í frásögur sé færandi, er hún þó vel

